GUNNAR DAL:

Vera, ljóð, 1949
Sfinxinn og hamingjan, ljóð, 1953
Rödd Indlands, 1953
Þeir spáðu í stjörnurnar, 1954
Sfinxinn og hamingjan, 2. útg., 1954
Sókrates, 1957
Spámaðurinn (þýdd ljóð), 1958
Októberljóð, 1959

Saga heimspekinnar:

Leitin að aditi, 1961
Tveir heimar, 1961
Líf og dauði, 1961
Hinn hvíti lótus, 1962
Yoga, 1962
Sex indversk heimspekikerfi, 1962
Grískir heimspekingar, 1963
Öld Sókratesar, 1963
Varnarræða Sókratesar (form. og þýð.) 1963

# Dauðasynd Sókratesar

Sókrates, sem alinn var upp á blómaöld Periklesar, bar mikla virðingu fyrir borgaralegum skyldum. Þess vegna neyddist hann, þegar Pelópseyja-stríðið brauzt út, til að hverfa frá köllun sinni um hríð og gegna skyldum hins óbreytta hermanns. Hann barðist við Poteidaia 432 f. Kr., við Delion 424 f. Kr. og við Amfipólis 422 f. Kr.

Hótanir eða hagnaðarvon gátu aldrei haft áhrif á Sókrates í Aþenu, og á vígvellinum brást honum ekki heldur hugrekki. Í „Symposium“ lætur Plató Alkibiades lýsa Sókratesi á hermennskuárum sínum:

„Fyrir orrustuna við Poteidaia hélt ég til í sömu tjaldbúð og Sókrates. Þar þoldi hann harðræðið betur öllum öðrum mönnum. Þegar

vistir þrutu, eins og stundum vill verða í hernaði, bar enginn föstuna eins vel og Sókrates. En þegar föng voru nóg, naut hann þeirra manna bezt. Vín drakk hann sjaldan, en kæmist hann ekki hjá að þreyta drykkju, sigraði hann hvern sem var, og þótt undarlegt kunni að virðast, hefur enginn nokkurn tíma séð Sókrates drukkinn.

Í vetrarkuldunum bar hann sig öllum betur. Þegar hörkurnar voru sem mestar og enginn fór úr tjöldum sínum án þess að fara í þykkar skjólflíkur og vefja fætur sína gæruskinnum, þá bar Sókrates sinn gamla feld einan klæða og gekk berum fótum á ísnum. Hann bar sig betur en þeir, sem skinnleistum klæddust, og fékk hermennina til að blygðast sín fyrir linkind sína...

Mér er einnig skylt að geta hugrekkis Sókratesar á vígvellinum, því að þar hefur hann bjargað lífi mínu. Það var þá, sem hershöfðingjarnir veittu mér verðlaun fyrir hreysti: Ég særðist og féll, en Sókrates einn yfirgaf mig ekki, heldur bjargaði mér og vopnum mínum undan óvinunum. Hershöfðingjarnir vildu veita mér heiðurslaunin að nokkru leyti vegna tignar minnar, og ég sagði þeim, að

Sókratesi bæri þessi heiðurslaun. En Sókrates lagði fastar að mér en þeir, að ég tæki sjálfur við heiðurslaununum.

Ég sá hann síðan á flóttanum eftir ósigur okkar í orrustunni við Delion, þar sem Sókrates var fótgönguliði. Ég var sjálfur ríðandi og ekki í bráðri hættu. Mér gafst því betra tóm til að virða hann fyrir mér heldur en við Poteidaiu. Hann og Laches (hershöfðingi) fylgdust að á flóttanum. Ég varð á vegi þeirra og bað þá vera hughrausta, því að ég skyldi verða þeim samflota. Þú hefðir átt að sjá hann þá, Aristófanes, því að þar var hann eins og þú lýsir honum (í „Skýjunum") og eins og hann er á götum Aþenu, mikill fyrir sér og leit með rólegri yfirvegun jafnt á aðgerðir óvinanna og sinna manna. Það hlaut öllum að vera ljóst, jafnvel úr fjarlægð, að hver sem á hann réðist mundi fá varmar viðtökur. Framkoma Sókratesar varð þeim félögum til lífs, því að á slíka menn er aldrei ráðizt í hernaði. Hinir, sem tvístrast á flóttanum, eru eltir og þeir felldir".

Þriðja orrustan, sem Sókrates tók þátt í og talað er um í varnarræðunni, er almennt talin háð við Amfipólis 422. Í þeirri orrustu féllu foringjar Aþenu og Spörtu, Cleon og Brasidas.

Í hættum og mannraun vígvallarins hélt Sókrates jafnan vöku sinni og komst lífs af. Á götum Aþenu storkaði hann stjórnmálamönnunum með réttsýni sinni og féll.

Að vísu hafði „röddin“ varað Sókrates við að hafa afskipti af stjórnmálum, en stjórnarhættir Aþenu voru á þann veg, að hjá því varð ekki með öllu komizt.

Sumarið 406 f. Kr. vann floti Aþeninga dýrkeyptan sigur við Arginoussai milli Lesbos og Litlu-Asíu. Þar týndust 4000 manns og 25 skip. Þetta tjón kenndu Aþeningar að miklu leyti vanrækslu flotaforingjanna, og voru þeir dregnir fyrir dóm 500 manna ráðsins. Þess var krafizt, að sami dómur yrði látinn ganga yfir alla, en mál hvers einstaks ekki tekið fyrir. Þetta var lögleysa, og Sókrates, sem þá var í forsæti, mótmælti ásamt „ráðherrunum“ 50 (Prytanar), og neituðu þeir að bera málið upp. En þegar æstur múgurinn hótaði þeim dauða, létu þeir undan, allir nema Sókrates. En hann var ofurliði borinn, og voru flotaforingjarnir ranglega dæmdir og teknir af lífi.

Tveimur árum síðar komst Sókrates aftur í lífsháska, — í það sinn vegna gagnrýni sinnar á stjórn hinna þrjátíu harðstjóra. Foringj-

ar þeirra voru Kritias og Charmides. Þeir létu taka af lífi fjölda andstæðinga sinna og gera eigur þeirra upptækar, svo að lýðræðissinnar sáu þann kost vænstan að flýja niður til Piraeus. Sókrates sat kyrr, en gagnrýndi framferði harðstjóranna. Lét Sókrates þau orð falla, að undarlegt væri, að hjarðsveinar ætluðu að sýna hæfni sína til fjárgeymslu með því að fækka hjörðinni. Enn undarlegra væri þó, er stjórnendur heillar borgar fækkuðu þegnunum og gerðu kjör þeirra verri án þess að skammast sín og sjá, að þeir væru óhæfir stjórnendur.

Sókrates var kallaður fyrir harðstjórana tvo, — hina fyrrverandi vini sína, sem sturlazt höfðu í stjórnmálavafstrinu. Þeir aðvöruðu hann og settu honum skilyrði: Hann varð að hætta að kenna mælskulist, hætta að ræða við unga menn undir þrítugu, — og alveg sérstaklega yrði hann að hætta að ræða um hjarðsveina, ella kynni svo að fara, að hann týndist sjálfur úr hjörðinni. En Sókrates hafði orð þeirra að engu. Þeir hugsuðu þá ráð sitt og ákváðu að neyða Sókrates til að taka þátt í hryðjuverkum þeirra eða láta hann „týnast úr hjörðinni“ að öðrum kosti. Gerðu þeir

Sókratesi boð um að fara við fjórða mann og handtaka auðkýfing nokkurn, Leon frá Salamis. Maður þessi hafði ekkert til saka unnið, en ætlunin var að komast yfir eigur hans með því að taka hann af lífi. Hinir þrír hlýddu og unnu verkið, en Sókrates neitaði að hlýða þessari hættulegu skipun harðstjóranna og fór hvergi. Það eitt bjargaði lífi Sókratesar, að lýðveldissinnar gerðu innrás í Aþenu frá Piraeus skömmu síðar og ráku harðstjórana frá völdum. — Þremur árum síðar dæmdu hinir nýju valdhafar Sókrates til dauða. Og það hefði tæplega verið gert, ef Sókrates hefði aðeins verið hinn „fullkomni hversdagsmaður“, sem Xenófón lýsir í ritum sínum.

Ráðamenn Aþenu hlutu að hafa gilda ástæðu til að vilja þennan snauða og valdalausa mann feigan. En hver var hún? Hinir nýju valdhafar höfðu skuldbundið sig til að lögsækja engan mann vegna skoðana í stjórnmálum. Gagnrýni Sókratesar og sjálfstæði varð þeim þó um megn að þola. Og vilji valdhafar ryðja manni úr vegi, skortir sjaldan góð ráð.

Ef hin raunverulega orsök þolir ekki dagsljósið, má jafnan finna einhverja ákæru til

að hafa að yfirskini. En slíka ákæru verður að velja vandlega með tilliti til hugarástands fólksins. Á þessum tímum, sem hér um ræðir, voru hugir manna í Aþenu í uppnámi vegna tíðra helgispjalla, sem unnin höfðu verið í musterunum. Í öðru lagi voru Aþeningar reiðir ýmsum óhappamönnum (Alkibiadesi o. fl.), sem brugðizt höfðu landi sínu á stund hættunnar og jafnvel gengið í lið með óvinunum. Sökudólgarnir voru einkum ungir menn, sem sumir hverjir höfðu þekkt Sókrates, án þess þó að vera hans lærisveinar, enda var Sókrates manna ólíklegastur til að hvetja til lagabrota og hermdarverka. — Valdhafarnir færðu sér í nyt þetta hugarástand almennings, sem svo oft krefst hinnar blindu hefndar og veit ekki, að hverju hann vegur.

Hin opinbera ákæra, sem var yfirskin hinnar raunverulegu, var miðuð við þetta hugarástand almennings. Sókrates var ákærður fyrir að trúa ekki á guði Aþenu, en boða trú á nýja guði. Í öðru lagi var hann ákærður fyrir að hafa spillt ungum mönnum með kenningum sínum.

Ljóst er af varnarræðu Sókratesar, að hann gerir sér fyllilega ljóst, að hin opinbera ákæra

er aðeins yfirskin. Þess vegna eyðir hann að henni fáum orðum. Hann veit um hina raunverulegu „sök“ sína, og þess vegna er varnarræðan uppgjör og mat á öllu lífi hans og starfi. Hún er ekki ræða manns, sem er að reyna að bjarga lífi sínu. Hún er ræða þess manns, sem veit, að hann er að fullkomna köllun sína með því að reynast henni trúr á örlagastund. Þetta skildi þá enginn vina hans — fremur en Pétur í Grasgarðinum forðum, þetta, að stundum er nauðsyn að deyja til að lifa.

Um fyrri hluta ákærunnar er óþarfi að fara mörgum orðum. Ákærendurnir gera jafnvel ekki neina tilraun til að útskýra, í hverju trúleysi Sókratesar sé fólgið, þaðan af síður að sanna, hvernig slík ákæra gæti verið dauðasök. Grikkir á 5. öld f. Kr. trúðu yfirleitt ekki á guði Hómers, og goðafræði var af mörgum skoðuð sem skáldskapur, samin mönnum til skemmtunar. — Enginn ákærði t. d. Aeschylos fyrir „guðlast“ sitt í Promeþeusi. Enginn ákærði Aristófanes fyrir að hæða bæði Seif og Dionysos. Enginn ákærði Euripides fyrir að kalla goðafræðina alla eintóma markleysu. Sókrates gerði hvorki að játa né neita sögum um guðina. Í hans augum voru þær að vísu

skáldskapur, en í innblæstri skáldsins geta hin hæstu sannindi birzt. Það var því engin ástæða til að ákæra Sókrates fyrir guðleysi, og jafnvel þó að svo hefði verið, var ekki ástæða til að refsa honum fremur en öðrum. Sókrates taldi, að ákærendurnir ættu við „röddina", þegar þeir ákærðu hann fyrir að „finna upp nýja guði". Þó er ljóst af varnarræðunni, að enginn ákærendanna hefur þorað að kveða upp úr um það með berum orðum: — Í borg, þar sem menn trúðu almennt á véfréttir, spásagnaranda og „trans", var fráleitt að ákæra mann og taka af lífi fyrir dulskynjanir.

Ef trúmál hefðu verið hin raunverulega ástæða, hefði Sókrates verið tekinn af lífi vegna ákæru, sem jafnvel saksóknararnir virðast ekki hafa skilið, í hverju var fólgin. Hér hlaut annað og meira að búa á bak við. Að vísu voru „dómararnir" hvatvís og sefjaður múgur, en valdhafarnir, sem honum stýrðu, höfðu raunverulega ástæðu, og hún var af „pólitískum" toga spunnin. Sókrates var ákærður fyrir að hafa spillt ungum mönnum: Hann hvatti menn til sjálfstæðrar hugsunar og vakti vitsmunalíf þeirra. Óhjákvæmilegur

förunautur vaknandi anda er gagnrýnin. *Hugsandi maður sættir sig ekki við að vera leikbrúða, sem dansar eftir þráðum í hendi annars manns.* — Sá, sem kenndi ungum mönnum að gagnrýna, spillti þeim frá sjónarmiði valdhafanna. Það var gagnrýni Sókratesar á stjórn hinna þrjátíu harðstjóra, sem nær hafði kostað hann lífið 403 f. Kr., og það var gagnrýni Sókratesar á valdhöfunum, sem kostaði hann lífið 399.

Sókrates veit, að þetta er hin raunverulega ákæra. Þess vegna segir hann í varnarræðu sinni, að Aþeningar geti ekki þaggað niður rödd gagnrýninnar með því að taka sig af lífi, aðrir muni koma í sinn stað og þeir muni verða þeim mun harðskeyttari sem þeir eru yngri en hann. Plató er ekki heldur í vafa um, að þetta sé hin raunverulega ákæra. Hvað eftir annað lætur Plató í ritum sínum valdhafana hóta Sókratesi dauða, ef hann hætti ekki að gagnrýna þá og stjórnarfarið: Í „Menó" lætur Plató Sókrates gagnrýna lýðræði Aþenu og leiðtoga þess harðlega. Og sá, er á hlýðir, er enginn annar en sjálfur Anytos. „Ég held, Sókrates", segir Anytos að lokum, „að þér hætti um of til að gagnrýna menn. Ég ráðlegg

þér að fara varlega. Jafnvel í öðrum borgum er léttara að fella menn en gera þeim gott, og vissulega er því þannig farið hér í Aþenu". — Í „Gorgias" hótar Kallikles Sókratesi á sama hátt, að hann verði dreginn fyrir dóm með hinum alvarlegustu afleiðingum, ef hann láti ekki af gagnrýni sinni.

Þessi dæmi nægja til að sanna, að hvorki Sókrates né Plató gengur þess dulinn, að hin raunverulega ákæra er gagnrýni Sókratesar á valdhöfunum og stjórnarfarinu.

En hvert var þá eðli þessarar gagnrýni og þeirra kenninga, sem hún byggðist á? Þær hlutu að vera sérstaks eðlis, vegna þess að öllum, sem gagnrýnt höfðu lýðræði og lýðræðissinna og jafnvel barizt á móti þeim, voru gefnar upp sakir, — öllum nema Sókratesi. Hin mikla og einstæða „sök" Sókratesar var að gera hærri kröfur til vitsmuna og siðgæðis en Aþena hafði áður þekkt. Hann bætti alin við þá mælistiku, sem lögð er á persónulega stærð manna og gildi. Þetta hefur löngum reynzt hin alvarlegasta yfirsjón, sem hægt er að gerast sekur um í mannlegu samfélagi, og þeir fáu menn, sem hana geta framið, hafa jafnan verið krossfestir, brenndir eða þeim

byrlað eitur. Þetta á sér kynlega orsök: Flestum mönnum er það sameiginlegt að vilja teljast sæmilega góðir menn og vitrir. En hinn ósjálfráði mælikvarði á mannkosti virðist jafnan vera meðalmaður samfélagsins. Á mælistiku manngildisins er merkt t. d. talan 100 við hinn gáfaðasta og bezta, talan 1 við óþroskaðasta mann samfélagsins og talan 50 við meðalmanninn. Af þessum orsökum líta menn ósjálfrátt með vissri velþóknun á þrjótinn og kjánann, sem fær þá sjálfa til að sýnast vitrari og betri. Með sömu velþóknun líta menn yfirleitt fall annarra, og orsökin er hin sama. — Komi aftur á móti fram á sjónarsviðið maður, sem ber af öllu því, sem samfélagið hefur áður þekkt, hækkar sá maður sjálfan mælikvarðann, þannig að gáfur og aðrir mannkostir allra hinna lækka á kvarðanum í samræmi við þessa hækkun. Afburðamaðurinn verður þannig til þess, að sá, sem var meðalmaður, verður fyrir neðan meðallag! Vilji menn vinna sig upp í fyrra sæti, verða þeir að bæta sig og taka andlegum framförum. Slíkt kostar áreynslu, sem menn eru ekki alltaf reiðubúnir til að leggja á sig. Þess vegna hrópa menn á öllum tímum, þegar slíkir menn koma

fram: „Heldur Barrabas!“ Og krossinn, eldurinn og eitrið verður hlutskipti afburðamannsins. — Þetta að vera vitrari og betri en aðrir Aþeningar, að krefjast þess réttar einstaklingsins að hugsa frjálst og mæla það, sem honum býr í brjósti, það var sú raunverulega sök, sem Sókrates varð að láta líf sitt fyrir.

*Gunnar Dal.*

# Varnarræða Sókratesar

Ekki veit ég, herrar mínir, hver áhrif ákærendur mínir hafa haft á ykkur, en mig höfðu þeir næstum sannfært. Svo snjöll voru rök þeirra. Samt var naumast nokkurt orð satt í því, sem þeir sögðu. Eitt var þó í margvíslegum ósannindum þeirra, sem öðru fremur vakti undrun mína. Ég á við þau ummæli, að þið yrðuð að gæta þess að láta ekki blekkjast af ræðu minni. Með þessu gáfu þeir í skyn, að ég væri mikill ræðuskörungur. Mér þótti það einstök óskammfeilni að segja ykkur þetta, án þess svo mikið sem að roðna, þar sem þeir þó hljóta að vita, að brátt munu þessi orð afsannast, er vankunnátta mín í mælskulist verður lýðum ljós: — nema þeir kalli það mælskulist að segja sannleikann. Ef þeir eiga

við það, þá er ég þeim sammála um að ég sé ræðumaður, þótt ekki fylgi ég þeirra forskrift.

Ákærendur mínir hafa, að ég hygg, varla sagt satt orð, en ég mun segja ykkur allan sannleikann. En vita skuluð þið, herrar mínir, að ræða mín verður ekki skrúðmælgi prýdd spakmælum og fögrum orðum eins og ræður þessara manna. Nei, þið munuð fá að heyra einföld orð, þau er mér koma fyrst í hug, sögð í trú á réttan málstað. Og enginn ykkar má búast við neinu öðru. Enda mundi það lítt sæma manni á mínum aldri að ávarpa ykkur með orðflúri skólapilts. Eins ætla ég þó að biðja ykkur lengstra orða. Þegar þið heyrið mig verja mál mitt með sama tali og ég hef verið vanur að nota bæði á torgum þessarar borgar (þar sem margir ykkar hafa hlýtt á mig) og annars staðar, þá látið það hvorki koma ykkur á óvart né vekja neina háreysti. Leyfið mér að minna á, að þetta er í fyrsta sinn sem ég hef verið leiddur fyrir rétt, þótt ég sé orðinn sjötíu ára. Sá málflutningur, sem hér tíðkast, er mér því með öllu ókunnur. Ef væri ég útlendingur, myndi mér eflaust fyrirgefast, að ég mælti á þá mállýzku og með þeim hætti, sem ég hefði alizt upp við. Þess vegna

bið ég ykkur nú — og sú bæn virðist mér sanngjörn, — að þið látið ykkur engu skipta hver ræðustíll minn er, — hann kann að vera betri og hann kann að vera verri — en hugsið um það eitt, hvort það sem ég segi, er rétt eða rangt. Þetta er æðsta skylda dómarans eins og það er skylda ræðumannsins að segja sannleikann.

Fyrst er mér skylt, herrar mínir, að fjalla um hinar elztu sakargiftir sem á mig hafa verið bornar og hina fyrstu ákærendur mína, en því næst hina seinni. Ég haga málflutningi mínum þannig vegna þess, að fjöldi manna hefur áður í fjöldamörg ár ákært mig í ykkar áheyrn, án nokkurs sannleiksneista. Ég óttaðist þessa menn meir en Anytos og félaga hans, þótt ekki séu þeir frýnilegir. En hinir eru ennþá verri. Ég á við þá, sem mótuðu ykkur í æsku og fylltu hug ykkar fordómum gegn mér. Þeir sögðu: — „Til er vitur maður, Sókrates að nafni, sem boðar nýjar kenningar um himnana og hefur kannað alla hluti undir jörðu niðri og getur látið röng rök sigra hin réttu". Það eru þessir menn, herrar mínir, þeir sem breiða út þennan orðróm, sem eru hinir hættulegu ákærendur mínir, því að þeir sem á þá hlýða

álíta, að hver sem kannar þessi fræði verði trúlaus. Auk þess eru þessir ákærendur fjölmargir og hafa nú sakfellt mig fjöldamörg ár. Og það sem meira er, þeir hafa talað til ykkar þegar þið voruð auðtryggastir og sumir ykkar voru börn en aðrir unglingar. Og þeir unnu beinlínis mál sitt í auðri sök, þar sem mér var þar enginn til varnar. Og það sem gerir málið erfiðast er, að mér er ekki einu sinni unnt að þekkja nöfn þessara manna, nema hvað svo vill til að einn þeirra er leikritaskáld. Allt þetta fólk, sem hefur ákært mig vegna öfundar og róggirni, — og sumir aðeins til að segja öðrum það sem þeim hefur verið sagt, — allt þetta fólk er mér erfitt viðureignar. Ég hef engin tök á að leiða það hingað til að láta það standa fyrir máli sínu. Ég verð að sætta mig við að flytja vörn mína gegn ósýnilegum andstæðingi, því að hér er enginn til að svara.

Ég verð að biðja ykkur að trúa mér, er ég segi að ákærendur mínir séu í tveimur hópum, annars vegar þeir sem nú ákæra mig og hins vegar þeir sem áður hafa ákært mig og ég hef nefnt. Og þið munuð vera mér samdóma um, að ég verði fyrst að snúast gegn hinum síðarnefndu. Þið hafið fyrr heyrt þá

rægja mig og miklu verr en þá sem nú ákæra mig.

Nú er mér skylt að verja mál mitt, herrar mínir, og ég verð að reyna á þeim stutta tíma, sem mér er ætlaður, að eyða þeim rangsnúnu hugmyndum sem sáð hefur verið í huga ykkar á mörgum árum. Það er von mín, að þetta takist, herrar mínir, og það er trú mín að það yrði ykkur til góðs engu síður en mér. En ég þekki eðli þessa máls, og þótt ég voni að vörn mín reynist góð, þá er mér ljóst, að hér er við ramman reip að draga. En þessu verða guðirnir að ráða. Mér ber að hlýða lögunum og verja mál mitt.

Við skulum hverfa til upphafs þessa máls og rifja upp þær árásir s em valdar eru að óvinsældum mínum og hvatt hafa Meletos til að bera fram þessa ákæru. Hvað var það, sem rógtungurnar sögðu, er þær réðust á mannorð mitt? Ég verð að lesa upp kæruskjal þeirra, eins og þær væru ákærendur hér í réttinum: — „Sókrates er sekur um glæpsamlega forvitni, með því að brjóta heilann um hluti undir jörðinni og uppi í loftinu, og hann lætur léleg rök sigra góð rök og kennir öðrum að fylgja fordæmi sínu“. Eitthvað á þessa leið

er ákæra þeirra. Þið hafið sjálfir séð í leikriti Aristófanesar, að Sókrates er þar látinn sveiflast í lausu lofti og segist þar ganga á skýjunum og aðra álíka vitleysu, sem mér hefur aldrei til hugar komið að halda fram. Ég segi þetta ekki til að lítilsvirða slíka kunnáttu, ef einhver skyldi eiga yfir henni að ráða, — ég kynni þá að fá fleiri ákærur frá Meletos, — en sannleikurinn er sá, herrar mínir, að ég læt mig þessi fræði engu skipta. Ég kalla ykkur vel flesta til vitnis um þetta, alla sem á mig hafið hlýtt (og það hafa flestir ykkar gert), og bið þess, að þið berið saman bækur ykkar um það, hvort nokkur hafi nokkurn tíma heyrt mig ræða lengur eða skemur um þessa hluti við nokkurn mann. Og þá munið þið komast að raun um, að annað, sem almenningur hefur um mig sagt, er álíka markleysa.

Sannleikurinn er sá, að ekkert er hæft í þessum ákærum. Ef þið hafið heyrt einhvern segja, að ég reyni að uppfræða menn og taki fé fyrir, þá er einnig það ósatt. Ég vildi að svo væri, því að ég álít það lofsvert, að til sé maður, sem fær er um að kenna eins og þeir Gorgias frá Leontini, Prodikos frá Keos og

Hippias frá Elis. Hverjum þessara manna er það leikur einn að fara inn í hvaða borg sem er og telja unga menn á að yfirgefa samborgara sína, sem þeir geta umgengizt ókeypis, og koma til hans og borga honum fé fyrir þessi forréttindi og láta þá þakka sér fyrir í tilbót. Enn einn þessara snillinga er maður frá Paros, sem ég hef heyrt að hafi verið hér á ferð. Ég mætti á leið minni manni, sem hefur greitt sófistum meira fé en allir aðrir til samans. Ég á hér við Kallias Hipponikosson. Ég spurði hann, því að ég veit að hann á tvo syni: „Kallias“, sagði ég, „ef synir þínir hefðu verið folöld eða kálfar, þá hefðum við auðveldlega getað fundið þeim ráðunaut og borgað honum fyrir að fullkomna eðlisgáfur þeirra. Þessi maður yrði að bera gott skynbragð á tamningu og landbúnað. En hvaða fræðara hyggstu velja þeim, fyrst þeir eru nú menn? Hver er sérfræðingur í að fullkomna hinar mannlegu og borgaralegu dyggðir? Ég býst við að þú hafir hugleitt þetta, þar sem þú átt syni. Er slíkur maður til eða er hann hvergi að finna?“ „Hann er til“, svaraði hann. „Hver er hann, og hvaðan kemur hann?“ sagði ég, „og hvað tekur hann fyrir fræðsluna?“

„Euenos frá Paros, Sókrates", sagði hann, „og hann tekur 5 mínur fyrir fræðsluna". Mér fannst að fagna bæri þessum manni sem byggi yfir slíkri kunnáttu og seldi hana við svo vægu verði. Ég mundi sannarlega hreykja mér hátt og þykjast mikill maður, ef ég kynni þessa hluti. En sannleikurinn er sá, herrar mínir, að ég kann þá alls ekki.

Hér kynni einhver að vilja taka fram í fyrir mér og spyrja: „En hvað er það þá sem þú gerir, Sókrates? Hvernig má það vera, að menn hafi misskilið þig á þennan hátt? Trúlega hefði allt þetta umtal og skvaldur aldrei komið upp, ef þú hefðir aðeins fengizt við venjuleg störf og verið eins og fólk er flest. Segðu okkur ástæðuna, ef þú vilt ekki að við segjum okkur hana sjálfir". Þetta virðist mér sanngjörn tilmæli, og ég mun reyna að skýra ykkur frá því, sem valdið hefur þessari fölsku frægð minni. Gefið mér því gott hljóð. Vera má að sumir ykkar haldi, að ég sé að gera að gamni mínu. En þið megið treysta því að ég mun segja ykkur allan sannleikann.

Þessa frægð mína hef ég, herrar mínir, hlotið fyrir eins konar vizku. Hvaða vizku? Mannlega vizku, geri ég ráð fyrir. Svo virðist sem ég

sé í raun og veru vitur í þessum takmarkaða skilningi orðsins. Menn ætla að snillingarnir sem ég minntist á áðan eigi þá vizku sem æðri er mannviti. Ég veit ekki hvað annað á að kalla hana. Ég hef að minnsta kosti enga þekkingu á slíkum vísdómi, og hver sem það segir fer með staðlausa stafi. Kallið ekki fram í fyrir mér þótt ykkur virðist fullyrðing mín fjarstæðukennd, því að það sem ég ætla að segja ykkur er ekki *mín* eigin skoðun. Ég skírskota til óyggjandi heimildar. Ég leiði fram guðinn í Delfi og kveð hann til vitnis um vizku mína, hvers virði hún sé.

Þið þekkið allir Kærefon. Hann var vinur minn frá barnæsku og góður flokksmaður ykkar sem fylgdi ykkur nú síðast í útlegðina og sneri aftur heim með ykkur. Og þið vitið hvernig maður Kærefon var, brennandi í andanum að hverju sem hann gekk. Hann hélt eitt sinn til Delfi og lagði þessa spurningu fyrir guðinn — eins og ég sagði áðan, herrar mínir, kallið ekki fram í — hann spurði hvort nokkur maður væri vitrari en ég. Völvan svaraði því, að enginn væri mér vitrari. Þar sem Kærefon er látinn mun bróðir hans, sem hér er staddur, staðfesta þetta.

En hvers vegna er ég að segja ykkur frá þessu? Það er af því að ég vil, að ykkur verði ljóst, hvernig árásirnar á mannorð mitt fyrst hófust. Þegar ég heyrði svar véfréttarinnar sagði ég við sjálfan mig: Við hvað getur guðinn átt? Hvers vegna talar hann í ráðgátum? Mér er fullljóst að vizku á ég enga, hvorki mikla eða litla. Hvers vegna segir hann þá að ég sé vitrastur allra manna í veröldinni? Hann mælir ekki markleysu, því að það hæfir honum ekki.

Er ég hafði hugleitt þetta um skeið, ákvað ég, þótt mér væri það ógeðfellt, að kanna sannleiksgildi þessara orða á eftirfarandi hátt: Ég hélt á fund manns nokkurs er hafði orð á sér fyrir að vera mjög vitur, vegna þess að ég hugsaði að hér eða hvergi mundi ég fá hrakið svar véfréttarinnar og gæti sagt við hinn háa anda: „Þú sagðir, að ég væri vitrastur allra manna, en hér er maður sem er mér vitrari“.

Ég fór nú að kanna vísdóm mannsins, — ég þarf ekki að nafngreina hann, en það var einn af stjórnmálamönnunum okkar sem ég tók til athugunar, þegar ég varð fyrir þessari reynslu, — og í viðræðunum við hann komst

ég að þeirri niðurstöðu, að þótt hann virtist vitur maður að margra dómi og einkum sjálfs síns, þá var hann það þó ekki í raun og veru. En þegar ég fór að reyna að sýna honum fram á, að hann aðeins héldi sig vitran, en væri það ekki í raun og veru, þá mætti sú viðleitni mín andúð bæði hjá honum og mörgum öðrum, sem þar voru staddir. Þegar ég hélt burtu, hugsaði ég með sjálfum mér: „Sannarlega er ég þó vitrari en þessi maður. Hvorugur okkar virðist hafa neinni þekkingu af að státa, en hann heldur sig vita eitthvað, þótt hann viti ekkert, en mér er ljós fáfræði mín. Ég virðist því vera ofurlítið vitrari að því leyti, að ég held mig ekki vita það sem ég veit ekki“.

Eftir þetta fór ég til að ræða við annan mann, sem sagður var jafnvel enn vitrari en hinn fyrri. Og aftur komst ég að hinni sömu niðurstöðu. Og einnig þar lögðu menn fæð á mig, bæði hann sjálfur og margir aðrir.

Upp frá þessu gekk ég frá einum til annars og ræddi við þá. Ég sá mér til hugarangurs og ótta að menn tóku að líta mig illu auga, en mér fannst ég knúinn til að láta hina helgu skyldu mína ganga fyrir öllu öðru. Þar sem ég var að reyna að leysa gátu goðsvars-

ins hlaut ég að eiga viðræður við hvern þann mann sem talinn var vitur. Og það get ég svarið við Hundinn, herrar mínir (því að ykkur verð ég að segja allan sannleikann), að ég sannfærðist um, er ég rannsakaði þetta að boði guðsins, að þeir sem voru í mestu áliti, höfðu næstum ekkert til brunns að bera, en aðrir, sem sagðir voru þeim síðri, voru miklu betur að sér í hagnýtum fræðum.

Ég vil, að þið lítið á þessi ævintýri mín sem eins konar pílagrímsför, sem farin var til að ganga endanlega úr skugga um sannleiksgildi goðsvarsins. Er ég hafði rætt við stjórnmálamennina, hélt ég á fund skáldanna, leikritaskálda, ljóðskálda og allra hinna, í þeirri trú, að þar myndi sannast, að ég væri þeim óvitrari. Ég kynnti mér það sem ég hugði beztu verk þeirra og spurði þá síðan nákvæmlega hvernig bæri að skilja rit þeirra, meðfram í þeirri von, að ég fræddist eitthvað af þeim. Ég fyrirverð mig, herrar mínir, að segja ykkur sannleikann, en hann verð ég þó að segja. Það mátti svo heita, að allir, sem við voru staddir, gætu skýrt þessi kvæði betur en höfundar þeirra. Svo að ég komst einnig brátt að niðurstöðu um skáldin: Kvæði þeirra eru

ekki ort af vizku, heldur af eins konar tilfinningu eða innblæstri. Þeir eru eins og sjáendur og spámenn sem flytja allan sinn háleita boðskap án þess að skilja merkingu hans sjálfir. Mér virtist það ljóst að þannig væri þessu farið um skáldin. Jafnframt varð ég þess vísari, að þau héldu, þar sem þau voru skáld, að þau hefðu fullkominn skilning á öllum hlutum, sem þau vissu ekkert um. Ég hvarf því einnig frá þeim með þá skoðun, að ég hefði hið sama fram yfir þau sem ég hafði fram yfir stjórnmálamennina.

Að síðustu hélt ég á fund iðnaðarmanna. Ég vissi vel, að ég hafði sjálfur næstum enga tæknilega kunnáttu, og ég var viss um, að þeir kynnu skil á mörgum merkilegum hlutum. Sú varð einnig raunin á. Þeir kunnu það, sem ég kunni ekki, og voru að því leyti vitrari en ég. En, herrar mínir, þessir sérfræðingar virtust hafa sama annmarka og skáldin. Vegna þess að þeir kunnu vel sína iðngrein þóttust þeir hafa fullkominn skilning á öllum öðrum hlutum, þeim sem mikilvægastir eru. Þessi villa fannst mér þyngri á metunum en hin verklega kunnátta þeirra. Þess vegna spurði ég sjálfan mig fyrir hönd véfréttarinnar, hvort

ég vildi heldur vera eins og ég var — og eiga hvorki hlutdeild í vísdómi þeirra né fávizku — eða hafa hvort tveggja eins og þeir. Og ég svaraði sjálfur véfréttinni, að bezt væri að vera eins og ég var.

Afleiðingar þessara rannsókna minna urðu þær, herrar mínir, að ég hef bakað mér hatur margra manna, sem verið hefur ótrúlega bitturt og langætt. Það hefur leitt af sér margvíslegan rógburð, þar á meðal þann, að ég gerði mér vizkuna að atvinnu. Er það vegna þess að í hvert sinn, sem ég get sannað, að sá sem þykist vera vitur á einhverju sviði sé það ekki, halda þeir, sem á hlýða, að ég viti þetta allt sjálfur. En sannleikurinn, herrar mínir, er án efa sá, að sannvitur er enginn nema guð einn, og með þessu goðsvari á hann við það, að mannlegur vísdómur sé lítils eða einskis virði. Mér virðist, að hann eigi ekki beint við Sókrates, heldur hafi hann aðeins notað nafn mitt til dæmis eins og hann vildi segja: „Hinn vitrasti meðal manna er sá, sem eins og Sókrates veit að vizka hans er í raun og veru engin“.

Þetta er ástæðan til að ég geng um enn þann dag í dag, kanna og rannsaka að boði guðsins, hvort einhver sé vitur, hvort sem hann er

samborgari minn eða aðkomumaður. Og þegar mér virðist einhver ekki vitur, reyni ég að styðja mál guðsins með því að sanna, að hann sé það ekki. Vegna þessarar iðju hefur mér hvorki gefizt tóm til að sinna málum borgríkisins né hugsa um heimilisþarfir. Þjónustan við guðinn hefur gert mig að öreiga.

Það er einnig önnur ástæða fyrir óvinsældum mínum. Fjöldi ungra manna, sem eiga ríka feður og lítið við að vera, hafa hópazt til mín og skemmt sér við að heyra aðra menn reynda. Þeir fylgja oft fordæmi mínu og taka að þráspyrja menn og sjá þannig, að ég hygg, að fjöldi manna sem þykjast vita eitthvað vita í raun og veru lítið eða ekki neitt. Af þessu leiðir að fórnardýr þeirra reiðast, ekki þeim heldur mér. Og þeir kvarta um, að hrakmenni nokkurt, Sókrates að nafni, fylli höfuð ungra manna með öfugsnúnum hugmyndum. En spyrji þá einhver, hvað hann geri og hvað hann kenni sem hefur þessi áhrif, verður þeim ógreitt um svör. En til að breiða yfir þennan vanda sinn grípa þeir til hinnar sígildu ákæru, sem alltaf er notuð þegar sakfella á heimspeking: að hann fræði nemendur sína um það sem

er á himnum eða undir jörðinni, að hann trúi ekki á guðina og láti rangt sýnast rétt. Ég býst við að þeir yrðu tregir til að viðurkenna sannleikann, en hann er sá að þeir eru sekir fundnir um að látast vita eitthvað þó að þeir viti alls ekki neitt.

Að minni hyggju óttast þeir um sitt eigið álit, og þar sem þeir eru margir og kappgjarnir hafa þeir bæði fyrr og síðar fyllt eyru ykkar lævísum rógi sínum. Þetta er ástæðan til að Meletos, Anytos og Lykon hafa nú ráðizt á mig, Meletos tekur upp hanzkann fyrir skáldin, Anytos fyrir iðnaðarmennina og stjórnmálamennina og Lykon fyrir ræðumennina. Mér þætti því furðu gegna, ef mér tækist, eins og ég sagði í upphafi máls míns, að uppræta úr hugum ykkar á þessum stutta tíma svo rótgróinn misskilning.

Þetta, herrar mínir, er sannleikurinn. Ég hef ekki dregið dul á neitt í ræðu minni, hvorki stórt né smátt. Ég þykist þess fullviss, að þetta hreinskilna tal mitt er orsök óvinsælda minna. Og vissulega sannar einnig það, að ég fer með rétt mál og að ég hef lýst rétt eðli og orsökum þeirrar ákæru sem hér er fram borin gegn

mér. Hvort heldur sem þið rannsakið þær nú eða síðar mun ykkur skiljast að þetta eru staðreyndir málsins.

Ég læt þetta svar nægja við þeim sakargiftum sem hinir fyrstu ákærendur hafa á mig borið. Ég mun nú snúa mér að Meletos, valmenninu og föðurlandsvininum, eins og hann kallar sjálfan sig, og síðan að hinum.

Við skulum fyrst endurskoða vitnisburð þeirra eins og um nýja málsókn væri að ræða. Hann er eitthvað á þessa leið: — „Sókrates er sekur um að spilla hugarfari æskunnar og að trúa á ný máttarvöld í stað þeirra guða, sem viðurkenndir eru af ríkinu". Þannig er ákæran. Athugum nú hvern einstakan þátt hennar. Hún segir að ég sé sekur um að spilla æskulýðnum. En ég fullyrði, herrar mínir, að Meletos er sekur um að fjalla af léttúð um alvarlegt mál með því að kalla menn fyrir rétt að ófyrirsynju og þykjast vera umhugað um málefni, sem hann hefur aldrei látið sig neinu varða. Ég mun reyna að sanna þetta á ótvíræðan hátt.

Komdu hingað, Meletos, og svaraðu mér. Þú lítur á það sem höfuðnauðsyn, er það ekki,

að ungmenni okkar njóti hinnar beztu leiðsagnar?

— „Já“.

Vel mælt. Segðu nú þessum mönnum hver sá maður er, sem hefur bætandi áhrif á ungdóminn. Það veiztu auðvitað, fyrst þér er svona annt um hann. Í mér segist þú hafa fundið hin siðspillandi áhrif, og þú hefur ákært mig fyrir augliti þessara manna. Talaðu nú til þeirra og bentu þeim á þann mann sem hefur siðbætandi áhrif á æskulýðinn. — Þarna sérðu, Meletos, þér vefst tunga um tönn og getur ekki svarað. Virðist þér þetta vera þér samboðið, og er það ekki í sjálfu sér næg sönnun þess, sem ég sagði, að þú létir þig málefnið engu skipta? Segðu mér nú, vinur minn, hver siðbætir æskulýðinn?

— „Það gera lögin“.

Ég átti ekki við það, minn kæri herra. Ég var að biðja þig að nefna mér þann mann, sem er þessi lög holdi klædd.

— „Það eru þessir menn, Sókrates, dómararnir“.

Þú átt við, Meletos, að þeir séu færir um að uppfræða æskulýðinn og gera hann betri.

— „Já, vissulega“.

Á þetta við um alla dómarana, eða aðeins suma þeirra?

— „Alla“.

Þetta eru mikil og góð tíðindi og mörg gerast þau nú valmennin. Og bæta nú áheyrendurnir hérna einnig æskuna eða hvað?

— „Já, einnig þeir“.

Og hvað um þá sem eru í 500 manna ráðinu?

— „Já, þeir líka“.

En borgararnir á þjóðfundinum, — ætli þeir spilli æskulýðnum, eða siðbæta þeir hann allir saman?

— „Já, þeir sömuleiðis“.

Þá virðist svo sem allir Aþeningar hafi göfgandi áhrif á æskuna, nema ég einn: ég sé sá eini sem spilli henni. Er það skoðun þín?

— „Já, bjargföst sannfæring“.

Þetta er óneitanlega harla skuggalegur eiginleiki sem þú hefur fundið í fari mínu. En má ég spyrja þig annarrar spurningar. Ef við nú heimfærum þetta upp á hesta, álítur þú þá að gervallt mannkynið hafi bætandi áhrif á þá, en til sé aðeins einn maður sem spillir þeim? Eða er hér sannleikanum alveg snúið

við? Er það ekki aðeins einn maður eða örfáir menn, tamningamennirnir, sem færir eru um að gera þá betri, en allur fjöldi þeirra manna, sem hesta þurfa að nota, skemmi þá? Er þessu ekki þannig farið, Meletos, bæði um hesta og allar aðrar skepnur? Þetta er augljóst mál, hvort sem þið Anytos neitið því eða játið. Æskulýðurinn væri ekki á flæðiskeri staddur, ef aðeins einn maður spillti honum, en allir aðrir hefðu á hann siðbætandi áhrif. Um þetta þarf ég ekki að fara fleiri orðum. Þú hefur sannað það nógsamlega, Meletos, að þú hefur aldrei látið þig æskulýðinn neinu skipta, að þú hefur aldrei hirt neitt um það mál, sem þú nú stefnir mér fyrir.

Og segðu mér ennfremur, Meletos, hvort betra er að vera meðal góðra manna eða vondra? Svaraðu mér þessu, heillakarlinn, það ætti ekki að vera erfitt. Er ekki raunin sú, að vondir menn hafa ill áhrif á þá sem þeir umgangast og að góð áhrif fylgja góðum mönnum?

— „Það er rétt“.

Er til sá maður, sem vill fremur hljóta illt en gott frá félögum sínum? Svaraðu mér, vinur minn, lögin gera þér skylt að svara. Vill

nokkur maður fremur láta gera sér illt en gott?

— „Auðvitað ekki“.

Þegar þú stefndir mér hingað fyrir að spilla ungmennum og gera þá að verri mönnum, áttir þú þá við að ég gerði það viljandi eða óviljandi?

— „Viljandi, auðvitað“.

Hvers vegna ert þú, Meletos, svona ungur orðinn miklu vitrari en ég eftir öll mín ár? Þú hefur skilið að vondir menn eru öllum til ills, en góðir menn gera þeim gott sem umgangast þá, en ég er sá glópur að skilja ekki einu sinni að með því að gera félaga minn að verri manni á ég það á hættu að hljóta af honum illt eitt? Og svo segir þú að ég vinni þetta óþurftarverk viljandi. Nei, ég trúi þessu ekki, Meletos, og ég held ekki að neinn annar trúi því. Annað hvort hef ég ekki spillt æskulýðnum eða þá gert það óviljandi. Ákæra þín er ósönn hvort heldur sem er. En hafi ég óviljandi verið valdur að spillingu, þá er hinn rétti málarekstur gagnvart slíkum óviljandi yfirsjónum ekki að stefna sakborningnum fyrir þennan dómstól, heldur ræða við hann í einrúmi til að uppfræða hann og áminna. Augljóst er að

ég muni hætta því, sem ég geri óviljandi, þegar ég kemst í réttan skilning um það. En þú hefur jafnan forðazt að hitta mig að máli og látið hjá líða að uppfræða mig um þessa hluti, og nú stefnirðu mér fyrir þennan dómstól, sem er staður ætlaður þeim, sem þarf að refsa, en ekki hinum, sem þarf að uppfræða.

Nú er það öllum ljóst, herrar mínir, að Meletos hefur, eins og ég sagði, aldrei sýnt neinn áhuga fyrir þessu máli. Samt bið ég þig að segja okkur, Meletos, á hvern hátt þú álítur að ég spilli hugarfari ungra manna. Ljóst er af ákæru þinni, að þú telur mig sekan um að kenna þeim að trúa á ný máttarvöld í stað hinna viðurkenndu guða ríkisins. Er það ekki sú kenning mín sem þú segir að hafi siðspillandi áhrif á æskulýðinn?

— „Jú, það segi ég einmitt".

Þá skora ég á þig, Meletos, í nafni þessara sömu guða, sem hér er um að ræða, að þú útskýrir orð þín betur, bæði fyrir mér og dómurunum, því að mér er merking þeirra ráðgáta. Á að skilja þau svo að ég kenni mönnum að trúa á einhverja guði (en í því felst að ég trúi sjálfur á guði og sé ekki alger guðleysingi, og geti því ekki verið sekur að því leyti), en

aðra en þá sem viðurkenndir eru af ríkinu, svo að ákæra þín byggist á því að þeir eru annars konar guðir? Eða ásakar þú mig um að trúa alls ekki á neina guði og kenna öðrum að gera hið sama?

— „Já, ég segi að þú sért trúlaus á alla guði“.

Þú gerir mig forviða, Meletos. Hvað gengur þér til að halda slíku fram? Heldur þú þá, að ég trúi ekki eins og allir aðrir, að sólin og tunglið séu guðir?

— „Það gerir hann alls ekki, dómarar, þar sem hann segir að sólin sé steinn og tunglið sé jörð“.

Heldur þú, vinur minn, Meletos, að þú sért að ákæra Anaxagóras? Og lítið álit hefur þú á þessum herrum, ef þú hyggur þá svo fávísa að þeir viti ekki að bækur Anaxagórasar frá Klazomenai eru fullar af þessum kenningum. Og svo ættu ungmennin að fræðast um þessar hugmyndir af mér, þegar þeir geta öðru hvoru keypt þær á torginu fyrir eina drökmu í hæsta lagi og gert á eftir gys að Sókratesi, ef hann eignaði sér þessar einkennilegu hugmyndir. Segðu mér, Meletos, hreinskilnislega,

hvort þetta sé álit þitt á mér? Trúi ég ekki á neina guði?

— „Nei, enga. Þú ert algerlega trúlaus“.

Orð þín eru engan veginn sennileg, Meletos, og ég held, að þú trúir þeim ekki sjálfur. Ég fæ ekki betur séð, herrar mínir, en að þessi maður sé ófyrirleitinn ofbeldisseggur og hafi lagt fram ákæru sína á hendur mér af unggæðingslegri mikilmennsku og sjálfbirgingshætti. Hann virðist vera að finna upp eins konar gáfnapróf til að leggja fyrir mig og hugsa með sjálfum sér: „Skyldi hinn alvísi Sókrates sjá að ég ber fram þessar mótsagnir sjálfum mér til skemmtunar, eða mun mér takast að blekkja hann og alla áheyrendurna?“ Vissulega virðist mér hann tvísaga í þessari ákæru, sem eins vel mætti orða þannig: „Sókrates er sekur um að trúa ekki á guðina, en trúir á guðina“. Og þetta er ekkert annað en léttúðarhjal.

Nú bið ég ykkur, herrar mínir, að íhuga með mér þau rök, sem leiða til þessarar niðurstöðu. Og þú, Meletos, munt verða við bón okkar og svara spurningum mínum. Viljið þið minnast þess, sem ég bað ykkur um í upphafi, að kalla

ekki fram í, þótt ég hagi orðum mínum eins og ég er vanur?

Meletos, er nokkurs staðar í veröldinni til sá maður, sem trúir að til séu mannvirki, en ekki menn? Látið hann svara, herrar mínir, og hætta þessum sífelldu undanbrögðum. Er til nokkur maður sem trúir að til sé hestamennska, en ekki hestar? Eða að til sé hljómlist, en ekki hljómlistarmenn? Nei, vinur minn, hann er hvergi til. Ef þú vilt ekki svara sjálfur, þá skal ég segja þér það og öðrum sem hér eru. En næstu spurningu verður þú að svara: Er til nokkur maður sem trúir á æðri mátt, en ekki á æðri máttarvöld?

— „Nei“.

Drengilega gert að svara þessu með aðstoð réttarins. En þú hefur svarið í ákærunni að ég trúi á og kenni öðrum að trúa á andleg öfl. — Það skiptir ekki máli hvort þau eru gömul eða ný, aðalatriðið er að ég trúi á þau samkvæmt þinni eigin staðhæfingu. En ef ég nú trúi á andleg öfl, hlýt ég þá ekki einnig að trúa á andlegar verur? Er þetta ekki rétt? Ég býst við að þögn þín sé sama og samþykki. Er það ekki trú okkar, að andlegar verur séu

annað hvort guðir eða launbörn guðanna? Játarðu þessu?

— „Já, auðvitað“.

En ef ég trúi á andlegar verur, eins og þú staðhæfir, og ef þessar andlegu verur eru guðir í einhverjum skilningi, þá komumst við að þeirri niðurstöðu sem ég minntist á áðan, þegar ég sagði, að þú værir að reyna vitsmuni mína þér til gamans, með því að fullyrða fyrst, að ég trúi ekki á guði, og segja síðan að ég trúi á þá, þar sem ég trúi á andlegar verur. Ef þessar andlegu verur eru á hinn bóginn launbörn guðanna, sem þeir hafa annaðhvort átt með þokkadísunum eða öðrum mæðrum eins og sagan hermir, mundi þá nokkur maður trúa því að börn guðanna væru til, en ekki guðirnir sjálfir? Það væri alveg eins broslegt og að halda að múlasnar væru til en hvorki hestar né asnar. Nei, Meletos, það fer ekki hjá því að þú hefur borið þessar ásakanir fram til að reyna mig, eða þá að þú hefur gefizt upp við að finna sanna sök sem þú gætir ákært mig fyrir. Það er gjörsamlega óhugsandi að þú getir sannfært nokkurn mann með einhverja vitglóru um að trú á yfirnáttúruleg og

guðleg áhrifaöfl feli ekki í sér trúna á yfirnáttúrulegar og guðlegar verur og gagnkvæmt.

Ég held ekki, herrar mínir, að ég þurfi að hafa varnarræðu mína lengri til að hreinsa mig af áburði Meletosar. Það sem ég hef þegar sagt ætti að nægja. En ykkur er vel ljóst að það er satt sem ég sagði fyrr í ræðu minni, að ég hef kallað yfir mig mikinn og bitran fjandskap, og hann mun verða minn dauðadómur, ef svo á að fara, hvorki Meletos eða Anytos, heldur rógur og öfund mikils hluta þjóðarinnar. Þetta hefur áður drepið marga saklausa menn, og á eftir að fella enn fleiri. Það eru engin líkindi til að ég verði sá síðasti. Nú kynni einhver að segja: „Finnur þú ekki til neinnar iðrunar, Sókrates, yfir að hafa stundað iðju, sem stofnar þér í þá hættu að vera gerður að dauðamanni?" Og ég svara honum þannig: Þér skjátlast, vinur minn, ef þú heldur að nokkur manndómsmaður geti óttazt dauða sinn. Í starfi sínu má hann aðeins hugsa um það eitt hvort það sem hann gerir sé rétt eða rangt, hvort hann breyti sem góður drengur eða lítilmenni. Vesælir hefðu þeir verið í þínum augum, kapparnir sem féllu við Trójuborg, og þó einkum sonur Þetisar. Þú minnist

þess ef til vill, að hann virti heiður sinn meira en hættuna, þegar gyðjan móðir hans varaði hann við henni með þessum orðum, ef ég man rétt: „Sonur minn, ef þú hefnir dauða vinar þíns Patróklosar og drepur Hektor, muntu sjálfur láta lífið“.

„Næst eftir Hektor mun þér bani búinn“.

Þó hann fengi þessa aðvörun, hirti hann hvorki um hættu né dauða, en óttaðist það eitt að lifa við skömm og hefna ekki vina sinna. „Lát mig deyja strax“, sagði hann, „þegar ég hef hefnt mín á fjandmanninum, fremur en híma hér við hin trjónuðu skip, öllum til athlægis og jörðinni til byrði“. Heldur þú að hann hafi hirt um hættu og dauða?

Sannleikurinn er sá, herrar mínir, þar sem maður hefur einu sinni tekið sér stöðu, annaðhvort vegna þess, að hann telur það sjálfur vera rétt eða til að hlýða skipun, þar á hann að minni hyggju að standa, bjóða hættunni byrginn og setja hvorki dauðann né neitt annað ofar heiðri sínum.

Hafi ég, herrar mínir, staðið á mínum stað eins og hver annar við Poteidaju, Amfípolis og Delion og boðið hættunni byrginn í þeirri stöðu er fyrirliðar þeir, sem þið völduð til að

stjórna, settu mig í, þá væri ég sjálfum mér harla ósamkvæmur ef ég nú af ótta við dauðann eða einhverja aðra hættu flýði úr þeirri stöðu sem guðinn hefur að minni hyggju sett mig í, að lifa fyrir heimspekina og læra að þekkja sjálfan mig og aðra. Það mundi sannarlega vera smánarlegt, og þá væri ekki nema réttmætt að draga mig fyrir dóm og ákæra um að hafa ekki trúað á guðina, að hafa ekki hlýtt véfréttinni, að vera hræddur við dauðann og þykjast vera vitur þótt ég sé það ekki. Því það að hræðast dauðann, herrar mínir, er einnig að þykjast vita það sem maður veit ekki. Enginn veit hvort dauðinn er ekki í raun og veru hin mesta hamingja, sem manninum getur hlotnazt. En menn óttast dauðann, eins og þeir væru vissir um að hann sé hið versta af öllu illu. Og er þetta ekki einmitt sú vítaverða fáfræði að þykjast vita það, sem maður veit ekki? Og aðeins í þessum skilningi álít ég að ég standi framar öðrum mönnum. Ef ég á einhvern hátt get talizt einhverjum vitrari þá er það að þessu leyti, ég hef enga þekkingu á hvað við tekur eftir dauðann, og mér er einnig ljóst, að ég á hana ekki. Hitt veit ég, að það er illt og ódrengilegt að gera það sem

rangt er og hlýða ekki yfirboðara sínum, hvort heldur sem hann er guð eða maður. Þess vegna mun ég aldrei hræðast eða forðast meir þá hluti sem ég veit ekki nema kunni að reynast góðir, heldur en þá sem ég veit að eru illir.

Ef þér nú skylduð hlýða mér og taka ekkert mark á Anytosi, sem hefur sagt, að annaðhvort hefði alls ekki átt að stefna mér, eða fyrst ég er kominn hingað, þá eigi að dæma mig til dauða, því að ef ég slyppi núna myndu allir synir ykkar verða gerspilltir við að leggja stund á það sem Sókrates kennir. Ef þið nú vegna þessa álits segðuð við mig: „Sókrates, í þetta sinn munum við ekki hlusta á Anytos og sýkna þig, en aðeins með því skilyrði, að þú eyðir ekki ævi þinni framar í þessa rannsókn og hættir við heimspekina. Ef við stöndum þig að því að halda henni áfram, munum við taka þig af lífi“. Ef þið nú, eins og ég sagði, skylduð bjóða mér að sleppa mér með þessum skilyrðum, þá mundi ég svara: „Herrar mínir, ég virði ykkur og elska, en framar ber mér að hlýða guði en ykkur. Og meðan ég dreg andann og mér endist fjör mun ég aldrei hætta að iðka heimspeki, gagnrýna ykkur og benda hverjum sem ég mæti á sannleikann“. Ég mun

halda áfram að segja eins og ég er vanur: „Vinur minn, þú ert Aþeningur og átt heima í borg sem er stærst og frægust á jarðríki fyrir vizku sína og mátt. Skammast þú þín ekki fyrir að sækjast eftir völdum og metorðum og reyna að komast yfir allt það fé, sem þú getur, en einskismeta sannleika, þekkingu og fullkomnun sálar þinnar?“ Og ef einhver ykkar neitar þessu og segist leggja stund á þetta, læt ég hann ekki strax frá mér fara eða yfirgef hann. Nei, ég mun spyrja hann, rannsaka og reyna. Og komi það á daginn, að hann þykist vera fullkomnari en hann er, mun ég segja honum til syndanna fyrir að vanrækja það sem verðmætast er, en sóa kröftum á smámuni. Þetta mun ég gera hverjum sem ég mæti, ungum jafnt sem öldnum, aðkomumönnum og borgurum, en einkum þó ykkur samborgurum mínum, þar sem þið eruð nákomnari. Því að þér skuluð vita að þetta geri ég að boði guðsins, og það er trú mín að ekki hafi ykkur hlotnazt önnur meiri gæfa í þessari borg en starf mitt í hans þjónustu.

Ég ver öllum mínum stundum til að ganga um meðal ykkar og freista þess að fá ykkur, unga og gamla, til að hugsa ekki mest um

hold ykkar og eigur, heldur um það sem dýrmætast er, anda ykkar. Ég hef sagt við ykkur: „Auðurinn skapar ekki hið góða, heldur skapar hið góða allan auð og alla hamingju bæði einstaklingnum og borgríkinu". Ef ég nú siðspilli ungum mönnum með þessum boðskap, þá verður hann að teljast hættulegur. En segi einhver að boðskapur minn sé annar en þetta, þá fer hann með staðlausa stafi. Þess vegna segi ég nú við ykkur, herrar mínir: „Ykkur er í sjálfsvald sett hvort þið hlustið á Anytos eða ekki og hvort þið sýknið mig eða ekki. En nú vitið þið að ég mun ekki breyta stefnu minni, jafnvel þó að ég ætti að deyja hundrað sinnum".

Þögn, gefið hljóð, herrar mínir. Minnizt bónar minnar um að fá að tala óhindraður. Auk þess hygg ég, að þið gætuð haft af því gagn að hlusta. Ég hef sitthvað fleira að segja ykkur sem kann að vekja háværi mótmæli, en ég bið ykkur um að sýna sjálfstjórn. Ef ég er það sem ég segist vera, þá fullyrði ég að þið munuð vinna ykkur meira tjón en mér með því að taka mig af lífi. Hvorki Meletos né Anytos geta unnið mér nokkurt mein. Til þess hafa þeir engan mátt, því að ég trúi því ekki að

lögmál guðsins leyfi það, að betri maður bíði tjón af hinum verri. Vafalaust getur ákærandi minn tekið mig af lífi eða dæmt mig í útlegð eða svipt mig mannréttindum. Og hann kann að ætla og margir aðrir með honum, að þetta sé hin mesta ógæfa, en þar er ég á öðru máli. Ég hygg að það sé miklu verra að gera það sem hann gerir nú, að reyna að láta taka saklausan mann af lífi.

Ég mun því ekki, herrar mínir, verja mál mitt til að bjarga mér, eins og þið kynnuð að ætla, heldur til að bjarga ykkur frá að syndga gegn guðinum með því að dæma mig, sem er gjöf hans til ykkar. Ef þið látið taka mig af lífi verður annar maður ekki auðfundinn til að taka sæti mitt. Það kann að þykja broslegt, en það er rétt í bókstaflegum skilningi, að guðinn hefur sérstaklega sent mig til þessarar borgar eins og hún væri stór og kyngóður hestur, sem orðinn er latur vegna stærðar sinnar og þyrfti á örvun broddflugunnar að halda. Mér virðist að guðinn hafi sett mig í þessa borg til að gegna hlutverki slíkrar flugu. Og myrkranna á milli er ég á látlausu flögri um alla borgina til að vekja ykkur, vanda um við ykkur og ávíta ykkur, hvern einasta ykk-

ar. Ykkur verður ekki auðvelt, herrar mínir, að finna mann í minn stað, og því skuluð þið fara að mínum ráðum og láta mig halda lífi. Mig grunar samt að ekki líði á löngu þar til þið vaknið af svefnmókinu og farið í reiði ykkar að ráðum Anytosar og drepið mig í einu höggi. Og síðan munuð þið halda áfram að sofa alla ykkar ævidaga, nema guðinn sendi ykkur af miskunnsemi sinni annan mann til að halda áfram verki mínu.

Ef þið efizt um að ég geti verið sendur sem gjöf guðsins til þessarar borgar, þá mun ykkur skiljast það af því sem ég nú mun segja, að ég er slíkur maður. Er það eðlilegt, að ég skuli ekkert hafa hirt um eigin hag og þolað þá auðmýkingu að verða að vanrækja fjölskyldu mína öll þessi ár, sem ég hef fórnað ykkur og gengið um meðal ykkar eins og faðir eða eldri bróðir til að hvetja ykkur til að leita hins fagra, sanna og góða? Ef ég hefði gert mér þetta til skemmtunar, eða hefði mér verið greitt fé fyrir góðar ráðleggingar, þá hefði verið hægt að skýra breytni mína. En nú sjáið þið sjálfir að þó að ákærendur mínir hafi án þess að skammast sín sakað mig um alls konar glæpi aðra, þá hafa þeir aldrei geng-

ið svo langt í blygðunarleysi að halda því fram að ég hafi nokkru sinni tekið við eða krafizt borgunar frá nokkrum manni. Það vitni sem ég hef til að sanna, að staðhæfing mín sé rétt, er að minni hyggju mjög sannfærandi. Þetta vitni er fátækt mín.

Það kann að þykja undarlegt að ég skuli ganga um borgina og ræða við menn einslega á þennan hátt og skipta mér af einkamálum þeirra, en aldrei áræða að halda opinbera ræðu og fræða ykkur um hvernig leysa eigi málefni ríkisins. En þetta á sér sínar orsakir. Þið hafið oft heyrt mig segja við ýmis tækifæri, að ég verð fyrir guðlegri eða yfirnáttúrulegri reynslu, sem Meletos þótti sæma að gera hlægilega í ákæru sinni. Hún hefur fylgt mér frá barnæsku, — einskonar rödd, sem talar til mín. Þegar ég heyri hana, þá varar hún mig alltaf við að gera eitthvað sem ég hef áformað, og hvetur mig aldrei áfram. Það er þetta sem hefur aftrað mér frá því að fást við stjórnmál, og það hefur orðið mér til góðs, að ég hygg. Því að þið þurfið ekki að efast um það, herrar mínir, að ef ég hefði gefið mig að stjórnmálum, væri ég löngu dauður, og hvorki unnið ykkur eða sjálfum mér nokkurt gagn. Reiðizt mér

ekki þó að ég segi ykkur sannleikann. Enginn maður á jarðríki mun lífi halda, ef hann fer eftir samvizku sinni og rís gegn ykkur eða einhverjum öðrum skipulögðum múg og leggst gegn því að ýmiss konar ranglæti og lögleysur nái fram að ganga í þjóðfélaginu. Sá sem virðir réttlætið verður að lifa án embættis og skipta sér ekki af stjórnmálum, ef hann vill lífi halda, þótt ekki sé nema um stundarsakir.

Ég mun nú færa fram nokkur haldgóð rök máli mínu til sönnunar, ekki kennisetningar, heldur það sem þið kunnið betur að meta, staðreyndir. Hlustið á er ég lýsi minni eigin reynslu, svo ykkur megi skiljast að þeir sem með völdin fara myndu aldrei fá mig til að beygja mig fyrir ranglætinu vegna ótta við dauðann. Ég myndi þvert á móti rísa gegn því, jafnvel þótt það kostaði mig lífið. Þetta verður algeng saga, sem oft gerist á dómþingum, en hún er sönn.

Hið eina skipti, sem ég hef gegnt embætti í þjónustu ríkisins, herrar mínir, var þegar ég var kosinn í ráðið. Nú vildi svo til að okkar hópur fór með dómsvaldið, þegar þið ákváðuð, að hinir tíu foringjar sem ekki höfðu bjargað líkum þeirra sem fórust í orrustu flotans

(við Arginusai) skyldu dæmdir allir í senn. Þetta var ólöglegt eins og þið viðurkennduð síðar. Í þessu máli var ég eini maðurinn í dómnum, sem krafðist þess að lögin væru haldin og greiddi atkvæði gegn þessari tillögu. Og þó að foringjar ykkar væru allir reiðubúnir að ákæra mig og handtaka og þið hvettuð þá allir til þess með hrópum og sköllum, þá hugði ég það skyldu mína að standa fast á lögum og rétti, fremur en fylgja ykkur og ranglæti ykkar af ótta við fangelsi eða dauða.

Þetta gerðist meðan lýðveldið var enn við lýði. Þegar höfðingjastjórnin tók völdin, stefndu hinir þrjátíu harðstjórar mér og fjórum öðrum í hringhúsið og skipuðu okkur að fara og taka Leon frá Salamis höndum á heimili hans, en hann ætluðu þeir að lífláta. Þetta var auðvitað ein af mörgum skipunum sem þeir gáfu ýmsum mönnum til að gera sem flesta samseka sér um ódæðisverkin. Við þetta tækifæri sýndi ég samt ljóslega, ekki með orðum, heldur athöfnum, að dauðinn skipti mig engu máli (ef kveða má svo sterkt að orði). Hitt skipti mig öllu máli, að ég gerði ekki neitt rangt eða ynni illt verk. Þótt stjórnin væri voldug, þá gat hún ekki hrætt mig til að vinna

illvirki. Þegar við komum út úr hringhúsinu, fóru hinir fjórir til Salamis og handtóku Leon, en ég fór heim. Sennilega hefði ég verið líflátinn fyrir þetta, ef stjórnin hefði ekki fallið skömmu síðar. Fjöldi manna getur borið vitni um þetta.

Haldið þið að ég hefði náð þessum aldri, ef ég hefði fengizt við stjórnmál og breytt á þeim vettvangi eins og góðum dreng sæmir, staðið með réttlætinu og sett það ofar öllu öðru eins og samvizkan býður? Því fer fjarri, herrar mínir, slíkt mundi heldur engum öðrum takast. Þið getið séð, að ég hef haldið fast við þetta í opinberum skyldustörfum og í viðskiptum við einstaka menn. Ég hef aldrei unnið neitt verk fyrir nokkurn mann sem brýtur í bága við réttlætið, ekki heldur þá sem rógberarnir kalla nemendur mína. Ég hef aldrei gerzt kennari nokkurs manns. En langi einhvern, ungan eða gamlan, til að heyra mig tala og rækja köllun mína, hef ég aldrei meinað honum það. Ég krefst heldur ekki greiðslu fyrir að tala við hann, eða neita að tala nema mér sé borgað. Ég er fús til að svara spurningum ríkra jafnt sem snauðra, og ef einhver vill heldur hlusta á mig og svara spurning-

um mínum þá er ég jafnfús til þess. Ég get ekki talizt ábyrgur fyrir því, hvort einhver þessara manna verður góður borgari eða hið gagnstæða. Ég hef aldrei heitið neinum manni kennslu né veitt hana. Og segi einhver, að hann hafi nokkurn tíma numið af mér eða heyrt mig segja eitthvað í einrúmi, sem aðrir máttu ekki heyra, þá getið þið verið þess fullvissir að hann fer með ósannindi.

En hvað veldur því að sumir menn hafa gaman af að vera hjá mér tímunum saman? Þið hafið heyrt ástæðuna, herrar mínir. Ég sagði ykkur hreinskilnislega hver hún er. Hún er sú, að þeir hafa gaman af að heyra mig prófa þá, sem halda að þeir séu vitrir, en eru það ekki. Það á sér sína broslegu hlið.

Þessa skyldu hef ég tekið mér á herðar, eins og ég sagði, til að hlýða köllun sem guðinn hefur opinberað mér í véfréttum og draumum og á allan þann hátt, sem guðleg ráðstöfun hefur verið birt mönnum.

Þetta, herrar mínir, er sannleikur og auðvelt að sanna. Sé það satt að ég sé nú að spilla einhverjum ungmennum og að mér hafi þegar tekizt að spilla öðrum, og ef það væri satt, að sumir hinna síðarnefndu, sem nú eru full-

tíða, hafi séð að ég hafi einhvern tíma, er þeir voru ungir, ráðið þeim til þess sem illt var, þá ættu þeir vissulega nú að koma fram og ákæra mig og refsa mér. Og þó þeir vildu ekki gera það sjálfir, mætti ætla að einhver aðstandenda þeirra — feður þeirra, bræður eða aðrir nákomnir ættingjar — mundu minnast þess nú, ef þeirra eigið hold og blóð hefði orðið að bíða tjón mín vegna. Ég sé ekki betur en margir þeirra séu staddir hér á þessu þingi. Þarna er Kritó, jafnaldri minn og granni, faðir þessa unga manns þarna, Kritobúlosar. Og þarna eru Lysanias frá Svettos og sonur hans Æskines. Einnig Antifon frá Kefisíu, faðir Epigenesar. Auk þeirra er hér margt manna sem átt hafa bræður í okkar félagsskap: Nikostratos Þeozotidesarson, bróðir Þeodotosar, — en Þeodotos er nú dáinn svo hann getur ekki haldið aftur af honum, — Paralos Demodokosson, bróðir Þeagesar, Adeimantos Aristonsson, bróðir hans Platos þarna, og Ajantodoros þarna við hliðina á bróður sínum. Ég gæti nefnt marga fleiri, og einhvern þeirra hefði Meletos vissulega átt að leiða til vitnis í ræðu sinni. Ef hann hefur gleymt því, þá ætti hann að gera það nú. Ég er fús til að rýma fyrir

honum. Látið hann sýna hvort hann hefur nokkur slík vitni fram að færa. Því fer fjarri, herrar mínir, það mun koma á daginn, að þeir eru þess albúnir að hjálpa mér — fjandmanni þjóðfélagsins og hinum illa anda nánustu og kærustu ættingja þeirra, eins og Meletos og Anytos segja. Vera má að hinir siðspilltu hafi sínar ástæður til að hjálpa mér. En hvað gæti hinum óspilltu fullorðnu ættingjum þeirra gengið til þess að hjálpa mér, nema hin rétta og réttmæta ástæða, að þeir vita að Meletos lýgur, en ég segi satt?

Þannig er þetta, herrar mínir. Þetta og ef til vill eitthvað fleira sem bendir í sömu átt, er það helzta sem ég get sagt mér til varnar. Vera má að sumir fyllist gremju í minn garð við að minnast eigin málaferla. Menn sem hafa átt í minni málum en þessu en sárbænt dómarana grátandi og komið hingað með kornung börn sín til að vekja sem mesta meðaumkun, og auk þess hóp af frændum og vinum. Ég hef hins vegar ekkert af þessu í hyggju, þótt ég (að því er virðist) sé í lífshættu staddur. Það gæti verið að einhver ykkar fordæmdi mig þegar hann hugleiðir þessar staðreyndir og greiði því atkvæði gegn mér í reiði. Ef ein-

hver ykkar skyldi vera í slíku hugarástandi — ég býst ekki við að svo sé, en það er hugsanlegt — þá hygg ég að ég gæti með réttu sagt við hann: „Vinur minn, einnig ég kynni að eiga einhver skyldmenni. „Eigi er ég af eik kominn, né út úr steini“, svo ég vitni í orð sjálfs Hómers. Foreldrar mínir eru mennskir menn og þess vegna á ég frændalið, já, og einnig þrjá syni, herra minn, einn þeirra er næstum fullvaxinn, hinir tveir aðeins börn. Samt mun ég hvorki sýna þá hér né biðja þig um að sýkna mig“. Hvers vegna ekki? Það er hvorki af þverúð, herrar mínir, né af fyrirlitningu á ykkur. Hér skiptir það heldur engu máli, hvort ég óttast dauða minn eða ekki. Kjarni málsins er sá að það er mér ekki samboðið, ekki heldur ykkur eða þessari þjóð. Slíkar aðfarir sæma ekki manni á mínum aldri og manni með mínum orðstír. Hvort sem hann er verðskuldaður eða óverðskuldaður, þá er það haft fyrir satt, að Sókrates sé öðruvísi en öll alþýða manna. Ef nú þeir ykkar, sem sagðir eru bera af um karlmennsku og vitsmuni eða aðra mannkosti, færu þannig að ráði sínu, mundi það vera til háðungar. Ég hef oft tekið eftir því að menn af þessari manntegund

lúta ótrúlega lágt, þrátt fyrir tign sína, þegar þeir eru dregnir fyrir dóm. Þetta sýnir að þeir halda það hina mestu ógæfu að láta líf sitt. Það er eins og þeir byggjust við að verða eilífir, ef þið þyrmduð þeim. Ég lít svo á, að þessir menn séu borg okkar til skammar. Gestir okkar mættu ætla, að helztu hetjur Aþenu, menn sem borgararnir kjósa öðrum fremur til stjórnarstarfa og annarra mannvirðinga, — séu blauðar eins og konur.

Slíkum vopnum ættum við ekki að beita, herrar mínir, ef við njótum einhvers álits, hversu lítið sem það er. Og ef við gerum það, megið þið ekki láta það viðgangast. Þið ættuð þvert á móti að gera það öllum ljóst, að sá sem setur slíka vesalmennsku á svið og verður borg okkar þannig til háðungar sé miklu líklegri til að hljóta dóm en hinn sem sýnir fullkomna rósemi.

En þó sleppt sé öllu ytra áliti, herrar mínir, þá hygg ég að það sé ekki rétt að fara bónarveg að dómurunum og fá sig þannig sýknaðan. Það á að fræða þá með staðreyndum og sannfæra þá með rökum. Hlutverk dómaranna er ekki að úthluta réttlætinu sem gjöfum, heldur hitt að dæma rétt. Og eiðurinn sem þeir hafa

svarið er um það að ívilna mönnum ekki að eigin geðþótta, heldur að kveða upp réttlátan og lagalegan dóm. Okkur sæmir því ekki að venja ykkur á að rjúfa eiða ykkar, né ykkur sjálfum að ástunda slíka iðju. Það væri okkur báðum syndsamlegt. Þið megið þess vegna ekki, herrar mínir, vænta þess, að ég hegði mér gagnvart ykkur á nokkurn þann hátt, sem ég tel mér ekki sæmandi, réttan eða í samræmi við hina trúarlegu skyldu mína. Sízt af öllu þar sem ég stend hér ákærður fyrir trúleysi af honum Meletosi þarna. Öllum má það ljóst vera, að ef ég reyndi að telja um fyrir ykkur og þröngva með bænum til að ganga gegn helgum eiði ykkar, þá væri ég að kenna ykkur að fyrirlíta trúna. Og með minni eigin málsvörn mundi ég ákæra sjálfan mig um að hafa enga trú. En því fer fjarri. Ég er einlægari trúmaður, herrar mínir, en nokkur ákærenda minna. Og ég fel ykkur og guði að dæma mig á þann veg, sem mér og ykkur verður fyrir beztu.

## *Sókrates er dæmdur sekur og Meletos krefst dauðarefsingar*

Margt ber til þess, herrar mínir, að ég harma ekki þessi málalok — ég á við dóm ykkar yfir mér — en einkum þó það að þau komu mér ekki á óvart. Það sem mig furðar á, er hve jafnt atkvæðin féllu. Ég bjóst aldrei við svo naumum meirihluta. En nú verður ekki annað séð en ég hefði verið sýknaður, ef aðeins þrjátíu atkvæði hefðu fallið öðruvísi. Þessi úrslit sýna, að minni hyggju, að ég hef verið sýknaður af kæru Meletosar og meira en það. Hver maður getur séð að ef Anytos og Lykon hefðu ekki komið fram til að ákæra mig mundi Meletos hafa tapað 1000 drökmum fyrir að ná ekki fimmtungi atkvæða.

Við verðum samt að horfast í augu við þá staðreynd, að hann krefst dauðarefsingar. —

Ágætt. En hvaða refsingu á ég að stinga upp á aftur á móti, herrar mínir? Hún verður að vera réttmæt. Jæja, hvaða sekt ber mér að borga og hvaða líkamsrefsingu á ég að þola fyrir það sem ég hef gert?

Ég hef aldrei lifað venjulegu, kyrrlátu lífi. Ég hafnaði því sem fjöldinn metur mest: að safna auði, eignast ríkulegt heimili, að fá góða stöðu í hernum, eða mannfélaginu, og öllum öðrum störfum, sem unnin eru í borg okkar, — pólitískum embættisstörfum, störfum leynifélaganna og flokksstörfum. Ég leit svo á að siðareglur mínar væru of strangar til að ég héldi lífi, ef ég gæfi mig að þessum störfum. Ég lagði því ekki út á þá braut, enda hefði ég með því hvorki gert ykkur né mér nokkurt gagn. Í þess stað tók ég mér fyrir hendur að veita hverjum einstökum ykkar þá þjónustu sem ég álít dýrmætasta. Ég reyndi að telja hvern mann á að meta ekki fjárhagslegan ávinning meira en andlega og siðferðilega velferð sína, eða yfirleitt að hugsa aldrei meira um gróða en velferð borgríkisins eða nokkurs annars. Hvað á ég skilið fyrir þessa hegðun? Einhver laun, herrar mínir, ef meta skal eftir verðleikum. Og það sem meira er, laun sem

væru við mitt hæfi. Nú, hvað hæfir bezt fátækum manni, sem er velgerðarmaður ríkisins og þarf nægar tómstundir til þess að geta gefið ykkur andlega hvatningu? Ekkert mundi eiga betur við slíkan mann en dvöl í Prytaneion á kostnað ríkisins. Hann á það miklu fremur skilið en nokkur sigurvegari í kappreiðum eða kappakstri í Olympíu, hvort heldur sem hann hefur unnið með einu hrossi, tveimur eða fjórum. Þeir sveinar færa ykkur skugga sigursins, ég hinn sanna sigur. Þeir þarfnast ekki framfærslu, en mér kæmi hún sér vel. Ef ég á því að nefna þá refsingu sem ég á skilið og er í fyllsta samræmi við réttlætið, þá legg ég til að mér sé veitt dvöl á Prytaneion á ríkisins kostnað.

Vera má að ykkur finnist ég með þessum orðum vera að ögra ykkur líkt og með því sem ég sagði áðan um að vekja meðaumkun og biðjast vægðar. Þessu er ekki þannig farið, herrar mínir, þetta á sér aðra orsök. Það er sannfæring mín, að viljandi hafi ég engum manni rangt gert, en því get ég ekki fengið ykkur til að trúa vegna þess hve stuttan tíma við höfum haft til viðræðna. Ef það tíðkaðist hér, eins og með öðrum þjóðum, að fjalla ekki

um dauðarefsingu á einum degi heldur mörgum, þá hygg ég að þið hefðuð látið sannfærast. En við þessar aðstæður er ekki auðvelt að hreinsa sig af alvarlegum staðhæfingum á svo stuttri stundu. En þar sem ég er sannfærður um að ég geri engum rangt til, þá er naumast hægt að ætlast til að ég geri sjálfum mér rangt til með því að segja að ég verðskuldi eitthvað illt eða stingi upp á einhverri slíkri refsingu. Hvers vegna skyldi ég gera það? Af ótta við að þola þá refsingu sem Meletos stingur upp á, þegar ég veit ekki, eins og ég sagði, hvort hún er mér til ills eða góðs?

Ætti ég að kjósa eitthvað sem ég veit fyrir víst að er illt með því að bera fram gagntillögu? Fangelsi? Hvers vegna ætti ég að eyða dögum mínum í fangelsi og vera ánauðugur lögreglumönnum, sem skipaðir eru í það og það skiptið? Fjársekt, — og sitja í fangelsi þar til skuldin er greidd? Hvað mig snertir breytti þetta ekki neinu, vegna þess að ég hef ekkert fé til að borga með fjársekt. Eða á ég að stinga upp á útlegð? Mjög sennilega mundguð þið samþykkja þá uppástungu.

Lífsþorsti minn þyrfti að vera takmarkalaus til að ég gerði það, herrar mínir. Svo

blindur er ég ekki að sjá ekki að þolinmæði ykkar samborgara minna er á þrotum við að hlýða á rökræður mínar. Þær hafa verið ykkur erfiðar og egnandi, og nú viljið þið vera lausir við þær. En munu aðrir una þeim betur? Það er mjög ólíklegt, herrar mínir. Líf mitt yrði dálaglegt ef ég á þessum aldri færi úr landi og hrökklaðist það sem eftir er ævinnar frá einni borg til annarrar og alls staðar útskúfaður. Ég veit fullvel að hvar sem ég færi myndu ungir menn hlusta á viðræður mínar eins og þeir gera hér. Og ef ég reyni að reka þá burtu fá þeir hina fullorðnu til að flæma mig á brott. En láti ég þá í friði, munu feður þeirra og aðrir ættingjar reka mig burtu af sjálfsdáðum vegna ungmennanna.

Nú kynni einhver að segja: „En hvers vegna getur þú ekki dregið þig í hlé það sem eftir er ævinnar og látið menn í friði eftir að þú hefur farið frá okkur?“ Þetta eiga sumir ykkar allra erfiðast með að skilja. Ef ég segi, að það væri að óhlýðnast guðinum, og þess vegna geti ég ekki „látið aðra í friði“, þá trúið þið því ekki að ég tali í fullri alvöru. En segi ég ykkur hins vegar að raunverulega sé það hið allra bezta sem maður getur gert sjálfum sér og

öðrum að láta engan dag líða án þess að ræða um hið góða og öll þau umræðuefni önnur sem þið heyrið mig tala um og rannsaka og að líf án slíkra andlegra iðkana sé ekki þess virði að lifa því, þá trúið þið mér þaðan af síður. Eigi að síður er þessu þannig farið, herrar mínir, þótt ekki sé auðvelt að sannfæra ykkur um að svo sé. Auk þessa er ég því óvanur að hugsa um sjálfan mig sem mann er verðskuldi refsingu. Ef ég ætti peninga þá hefði ég stungið upp á sekt sem ég gæti greitt, vegna þess að það hefði ekki skaðað mig neitt. En eins og málum er háttað get ég það ekki þar sem ég er félaus, nema að sjálfsögðu ef þið gerið mér ekki að greiða hærri sekt en ég get borgað. Ég býst við, að ég gæti líklega greitt ykkur eina mínu. Ég sting upp á þeirri sekt.

Bíðið við, herrar mínir. Hann Plató hérna og Kritó, Kritobúlos og Apollodoros vilja að ég stingi upp á 30 mínum. Látum svo vera, ég fellst á þessa upphæð, og þið getið treyst því, að þessir menn munu sjá svo um að skuldin verður greidd.

**Dómur fellur og Sókrates er dæmdur til dauða.**

Þannig fór það, herrar mínir. Fyrir þennan stundar ávinning mun ykkar verða getið, og ámælt af þeim sem ófrægja vilja borg okkar, fyrir að hafa drepið vitringinn Sókrates. Því að vitran munu þeir kalla mig þó að ég sé það ekki, þessir menn sem vilja hallmæla ykkur. Hefðuð þið aðeins beðið lítinn tíma, myndi þetta hafa komið af sjálfu sér. Þið getið séð að ég er aldinn að árum og dauðinn er farinn að nálgast mig. Þetta mæli ég ekki til ykkar allra, en til þeirra sem dæmdu mig til lífláts, og það er ýmislegt fleira sem ég ætla einnig að segja þeim.

Þið haldið sjálfsagt, herrar mínir, að ég hafi verið dæmdur vegna þess að ég beitti ekki rökum sem ég hefði getað beitt, hefði mér fundizt það rétt að láta ekkert ósagt eða ógert til að tryggja sýknun mína. En því fer fjarri. Ég er ekki dæmdur vegna þess að mig skorti rök, heldur vegna hins að mig skorti undirlægjuhátt og ófyrirleitni til að tala eins og þið helzt vilduð heyra. Gjarnan hefðuð þið viljað sjá mig víla og vola, segja og gera þá hluti sem ég tel mér ekki samboðna, en þið eruð vanir að heyra hjá öðrum. En mér fannst ekki rétt að lúta í duftið eins og þræll, vegna þess

eins að ég var í hættu staddur, og mig iðrar þess ekki heldur nú hvernig ég hagaði málsvörn minni. Fremur kýs ég að deyja fyrir þessa framkomu mína en lifa vegna hinnar. Hvorki mér né neinum öðrum manni sæmir að gera hvað sem er til að bjarga lífi sínu, hvorki fyrir dómi né í hernaði. Í bardaga er oft augljóst að bjarga mætti lífinu með því að fleygja frá sér vopnum og grátbæna þá sem flóttann reka um grið. Og úr hverri hættu eru leiðir til að forðast dauðann, ef menn vilja leggjast svo lágt að gera hvað sem vera skal. En ég hygg, herrar mínir, að það sé ekki örðugast að forðast dauðann. Það sem er örðugast er að forðast ranga breytni, því að hún er miklu frárri á fæti. Nú hefur sá, sem seinni er, náð mér, hinum þungstíga, gamla manni, en ákærendum mínum, sem eru skæðir og fótfráir, hefur sú náð sem hraðar hleypur, rangsleitnin. Ég hverf héðan af þessu þingi dæmdur af ykkur til dauða, en þeir munu fara héðan dæmdir af sjálfum sannleikanum fyrir ódrengskap og ranglæti. Og þeir fá sinn dóm engu síður en ég minn. Efalaust átti það þannig að fara og ég hygg að þessi málalok séu réttmæt.

En nú langar mig til að spá um framtíðina

fyrir ykkur, sem hafið sakfellt mig, því að nú er ég kominn að þeim stað, þar sem spásagnarandi kemur helzt yfir menn: að hliðum dauðans. Ég segi ykkur, sem dæmt hafið mig til dauða, að hefndin mun berja að dyrum ykkar undir eins eftir dauða minn og hún mun verða miklu þyngri en dómur ykkar yfir mér. Þið hafið dæmt mig til dauða í þeirri trú að þá myndi framferði ykkar ekki framar sæta gagnrýni. En að minni hyggju munuð þið komast að raun um hið gagnstæða. Það munu fleiri gagnrýna ykkur, menn sem ég hef hingað til haldið aftur af án þess að þið vissuð. Og þar sem þeir eru yngri munu þeir reynast ykkur óvægnari og erfiðari. Ef þið haldið, að þið getið þaggað niður gagnrýnina á röngu líferni ykkar með því að taka menn af lífi, þá er skynsemi ykkar alláfátt. Þessi undankomuleið er hvorki fær né sæmileg. Bezta og auðveldasta leiðin er ekki sú að meina öðrum máls, heldur hitt að verða sjálfir eins góðir og þið getið. Þetta er mitt síðasta orð til þeirra, sem með atkvæði sínu dæmdu mig til dauða.

Við ykkur, sem sýknuðuð mig, vildi ég mjög gjarnan segja um þessi málalok nokkur orð, meðan valdsmennirnir eru í önnum og ég hef

enn ekki lagt af stað til þess staðar sem ég hlýt að deyja á. Ykkur bið ég, herrar mínir, að staldra við um stund. Ekkert mælir gegn því að við ræðumst við meðan lög leyfa. Ég lít á ykkur sem vini mína, og ég vil að þið hafið réttan skilning á því sem yfir mig hefur gengið. Dómarar, — því að það nafn ber ykkur með réttu, — ég hef orðið fyrir undarlegri reynslu. Á liðnum árum hefur hin spámannlega rödd, sem ég er vanur að heyra, alltaf fylgt mér og varað mig við, jafnvel út af smámunum, þegar ég ætlaði að gera eitthvað, sem ekki var rétt. Nú hefur það borið að garði, eins og þið vitið, sem mætti virðast og er oftast talið hin mesta ógæfa. Samt hefur rödd guðsins ekki aðvarað mig, hvorki þegar ég fór að heiman í morgun né þegar á dómstaðinn kom né við nokkra setningu ræðu minnar. Í öðrum ræðum hefur hún oft stöðvað mig í miðri setningu. En að þessu sinni hefur hún aldrei stöðvað mig neins staðar í þessu máli í nokkru sem ég hef sagt eða gert. Hver getur orsökin verið að mínu áliti? Það skal ég segja ykkur. Ég álít að það sem gerzt hefur verði mér til blessunar og að við förum villir vegar er við höldum að dauðinn sé ógæfa. Ég hef

fyllstu ástæðu til að vera á þessari skoðun því að röddin sem ég er vanur að heyra hefði örugglega varað mig við, ef það sem ég gerði leiðir ekki til góðs.

Við skulum hafa það í hyggju að það liggja einnig önnur rök til þess að halda megi að dauðinn sé ávinningur. Dauðinn er eitt af tvennu. Hann er annaðhvort útslokknun lífsins, og þá veit hinn dauði ekki til sín, eða eins og okkur er kennt, aðeins breyting, — för sálarinnar úr einum heimi í annan. Hafi maðurinn enga vitund og sofi draumlausum svefni, þá er dauðinn dásamlegur ávinningur. Því að það hygg ég ef einhver ætti að bera þá nótt er hann svaf værum, draumlausum svefni saman við aðrar nætur og daga sína, skoða síðan hug sinn og segja til um, hve marga betri og hamingjusamari daga og nætur hann hafi átt á ævi sinni en þá nótt, — þá held ég að jafnvel hinn mikli konungur, hvað þá alþýða manna, mundi viðurkenna að þær ævistundir væru auðtaldar í samanburði við hinar. Sé dauðinn líkur þessu, þá tel ég hann ávinning, því að með þessu móti væri eilífðin aðeins ein nótt. Sé dauðinn hins vegar för héðan til annarrar tilveru, og sé það sem okkur er kennt sannleikur, að allir hinir

dánu séu þar, hvaða blessun getur þá verið meiri en þessi, herrar mínir? Myndi sú för ekki þykja góð, ef við hyrfum frá þessu svokallaða réttlæti okkar til annarrar veraldar og fyndum þar hina sönnu dómara sem þar eru sagðir ráða, Minos, Hradamanþys, Ajakos, Triptolemus og aðra hálfguði sem voru réttlátir í þessu lífi? Hvers virði væri það ekki að hitta Orfeus og Musajos, Hesiod og Hómer? Ég vildi fúslega deyja tíu sinnum ef þetta er satt. Mér yrði það alveg sérstök gleði að hitta þá þar, að sjá Palamedes og Ajax Telamonsson og allar aðrar hetjur fortíðarinnar sem létu líf sitt fyrir ranglátum dómi. Ég hygg að það gæti verið gaman að bera afdrif mín saman við örlög þeirra. En allra helzt kysi ég þó að iðka það þar eins og hér að kanna og reyna vitsmuni manna, sjá hver þeirra er raunverulega vitur, og hver aðeins heldur það en er það ekki. Hvað myndi maður ekki vilja leggja í sölurnar, herrar mínir, til að geta lagt spurningar fyrir foringja hins mikla hers sem réðst á Trójuborg, eða Ódysseif, Sisyfos og þúsundir annarra manna og kvenna sem hægt væri að telja upp og óumræðileg hamingja myndi vera að blanda geði við og taka tali. Ég býst að

minnsta kosti ekki við, að þeir taki menn af lífi fyrir slíka hegðun, því fyrir utan það að þeir eru sælli en við erum, þá eru þeir ódauðlegir, ef það er satt, sem sagt er.

Einnig þið, dómarar, eigið að bíða dauðans æðrulausir og vera stöðugir í þeirri trú sem er vissa, að góðum manni fær ekkert unnið mein, hvorki þessa heims né eftir dauðann og guðirnir eru ekki afskiptalausir um hag hans. Þessi örlög mín eru engin tilviljun. Ég er þess fullviss að nú er mér það fyrir beztu að deyja og leggja niður byrði mína. Þess vegna lét rödd guðsins mig aldrei snúa við. Ég ber því fyrir mitt leyti engan óvildarhug til þeirra sem dæmdu og ákærðu þótt þeir gerðu það ekki í þessum góða tilgangi, heldur til að vinna mér mein.

Og það er vítavert af þeim. Samt bið ég þá einnar bónar: Ef synir mínir, þegar þeir verða fulltíða, setja auðsöfnun eða nokkuð annað ofar hinu fagra, góða og sanna, þá refsið þeim, herrar mínir, á sama hátt og ég refsaði ykkur. Og ef þeir hreykja sér að ástæðulausu, eigið þið að ávíta þá eins og ég ávítaði ykkur fyrir að vanmeta það sem mest er um vert og halda sig vera eitthvað þó að þeir séu ekki neitt. Ef

þið gerið þetta, þá hafið þið sýnt mér réttlæti, bæði mér og sonum mínum.

Nú er kominn tími til að fara. Ég fer til þess að deyja, en þið til að lifa. Hvor förin verður betri veit enginn nema guð einn.

*Bls. 23*

**Á torgum þessarar borgar.** Orðrétt stendur: Við borð okurkarlanna. Þessir menn ráku starfsemi sína í súlnagöngunum kringum Agóru, stórtorgið í Aþenu. Í forsælu súlnaganganna var hinn ákjósanlegasti staður til viðræðna, enda var þar jafnan margt um manninn.

*Bls. 24*

**Anytos og félagar hans.** Þeir voru Meletos og Lykon. Anytos naut mikillar virðingar hjá lýðveldissinnum. Hann barðist gegn Sófistum — og taldi Sókrates einn þeirra. Lykon var frægur ræðuskörungur en Meletos, aðalákærandinn, hafði á sér illt orð og er talið að hann hafi þóttst eiga sín að hefna vegna gamalla deilna við Sókrates.

*Bls. 25*

**Leikritaskáld.** Hér er átt við gamanleikaskáldið Aristófanes, sem samdi um Sókrates gamanleikinn „Skýin", sem sýndur var 423. Skáldið lætur Sókrates og félaga hans búa í „hugmyndasmiðju" og Sókrates er látinn sveiflast í körfu til að hafa nóg af lofti til að hugsa með! (Hér er heimspeki Díógenesar frá Appolóníu skopstæld, en hann var félagi Sókratesar). Ekki verður þó annað séð en vel hafi farið á með Aristófanesi og Sókratesi, ef dæma má eftir samskiptum þeirra í „Samdrykkjunni".

*Bls. 27*

**Gorgias frá Leontini.** Gorgias kemur fyrst til Aþenu 427. Hann var efasemdamaður og virðist hafa látið mikið að sér kveða. Plató nefnir eftir honum eitt rita sinna, Gorgias, en þar leiða Sókrates og Gorgias saman hesta sína.

*Bls. 27*

**Prodikos frá Keos.** Einn bezti hugsuðurinn í hópi Sófista. Hann er þekktastur úr riti Platós „Protagoras", en þar skopstælir Plató rökfræði hans.

*Bls. 28*

**Hippias frá Elis.** Sófisti og þekktur fjölfræðingur.

*Bls. 28*

**Kallias.** Í „Prótagórasi" lætur Plató Kallias vera gestgjafann. Hann var ríkur „menningarfrömuður" og lét mestallt fé sitt renna til Sófistanna.

*Bls. 29*

**Evenos frá Paros.** Skáld og ræðusnillingur, sem Plató getur um í Fædon. 5 mínur eru um þrjú þúsund krónur, miðað við núverandi verðgildi.

*Bls. 30*

**Kærefon.** Lýðveldissinni, einn af félögum Sókratesar og eins og hann hæddur í „Skýjunum", gamanleik Aristófanesar.

*Bls. 30*

**Delfi.** Hin helga borg Grikklands og véfrétt guðsins Appollós. Vafalaust hefur prestum véfréttarinnar verið kunnugt um skoðanir Sókratesar, og spásögnin bendir til að prestarnir hafi verið þeim sammála, — enda líklegt að sömu launhelgar standi að baki báðum.

*Bls. 30*

**Fylgdi ykkur síðast í útlegðina.** Þetta á við atburðina 404, þegar lýðveldissinnar flýðu borgina vegna harðstjórnar höfðingjasinna.

*Bls. 31*

**Bróðir Kærefons.** Kærekrates.

*Bls. 44*

**Drakma.** 1/100 úr mínu.

*Bls. 44*

**Anaxagóras frá Klazomenai.** Einn mesti heimspekingur Grikkja (uppi 500—428 f.K.) Hann var dæmdur til dauða fyrir trúleysi en þó einkum vegna stjórnmálaskoðana. Honum tókst að flýja með hjálp Periklesar, sem í æsku var einn nemenda hans.

*Bls. 44*

**Keypt þær á torginu fyrir eina drökmu.** Orðrétt stendur „í Orkestru". Orkestra stóð við Agóru. Milli leiksýninga voru hér seldar bækur og hitt var einnig mjög algengt að viðskiptavinurinn fékk bókina lesna upp fyrir sig á staðnum gegn mjög litlu gjaldi. Ein drakma er því gjaldið fyrir að fá bók Anaxagórasar lesna upphátt í Orkestru.

*Bls. 46*

**Andlegar verur.** Hér er notað orðið demonar, sem hefur óljósa merkingu þar sem það er notað um allar verur, sem eru meira en mannlegar.

*Bls. 47*

**Launbörn guðanna.** Hetjur eða hálfguðir.

*Bls. 48*

**Sonur Þetesar.** Akkilles.

*Bls. 49*

**Poteidaju.** Um hana var barizt 432—430. Frásögnin í „Samdrykkjunni“ um það, er Sókrates bjargar lífi Alkibiadesar, er frá þessari viðureign.

*Bls. 49*

**Amfipólis.** Aþensk nýlenda við mynni Struma. Þessi orusta var háð við borgarmúrana árið 422.
**Delion.** Borg í Böótíu. Þar biðu Aþeningar mikinn ósigur 424.

*Bls. 49*

**Kosinn í ráðið.** Raunverulega var valið með hlutkesti. 50 borgarar voru valdir í senn úr hverri hinna 10 ættkvísla Aþeninga.

*Bls. 57*

**Hinir 10 foringjar.** Eftir sigur Aþeninga yfir Spartverjum við Arginusai 406 var krafizt dauðadóms yfir hershöfðingjunum (Á þeim tímum var engin skipting á foringjum milli landhers og flota) fyrir að hafa ekki bjargað líkum hinna föllnu. Raunar tóku aðeins átta þessara foringja þátt í orustunni.

*Bls. 58*

**Hringhúsið.** Aðsetursstaður æðstu valdamanna. Það var reist sama ár og Sókrates fæddist og staðsett við suðvesturhorn stórtorgsins.

*Bls. 60*

**Í véfréttum og draumum.** Hér er átt við draum sem Plató segir frá í bók sinni Fædon.

*Bls. 61*

**Krító.** Nánasti vinur Sókratesar. Hinir, sem nefndir eru, eru lítt kunnir nema Plató og faðir hans Aristó, bróðir hans, Adimantos, sem kemur mjög við sögu í „Ríkinu“ og Apollódóros, sögumaðurinn í „Samdrykkjunni“.

*Bls. 63*

**Einnig þrjá syni.** Þeir nefndust Lamprokles, Sófroniskos (föðurnafn Sókratesar) og Menexenos. Þeir koma lítt við sögu.

*Bls. 66*

**80 atkvæði.** Með sýknun greiddu 220 atkvæði en 280 á móti.

*Bls. 68*

**Dvöl á Prytaneion.** Sókrates hæðist hér að Aþeningum fyrir að verðlauna fremur íþróttagarpa en andlega afreksmenn.

*Bls. 69*

**Útlegð.** Vafalaust ætluðust ákærendur Sókratesar til, að útlegð yrði niðurstaða málsins.

*Bls. 72*

**Sem dæmt hafið mig til dauða.** Þeir, sem greiddu atkvæði með dauðadómi voru 360, en 140 á móti. Þannig hafa um 80 þeirra dómenda, sem áður dæmdu Sókrates saklausan, greitt atkvæði með því að taka hann af lífi.

*Bls. 76*

**Hinn mikli konungur.** Persakóngur, sem Grikkir litu á sem tákn allra jarðneskra auðæfa.

*Bls. 77*

**Minos, Hradamanþys og Ajakos.** Sagan segir, að þeir séu synir Seifs og dómarar í helheimum.

*Bls. 77*

**Triptolemus.** Hann er ekki í öðrum heimildum nefndur dómari hinna dauðu. Hann var dýrkaður í launhelgum Demeter og sagan segir, að hann hafi kennt Grikkjum akuryrkju.

*Bls. 77*

**Orfeus.** Við hann eru Orfeusar-launhelgarnar kenndar. Til þeirra eiga kenningar Pyþagoringa rætur að rekja og ýmsir fræðimenn telja að Sókrates hafi verið einn hinna innvígðu.

*Bls. 77*

**Musajos.** Skáld eins og Orfeus. Einkum getið í sambandi við véfréttir og lækningar.

*Bls. 77*

**Hesiod.** Skáld frá Askra í Böótíu, næstur Hómer af grískum fornskáldum.

*Bls. 77*

**Palamedes.** Grískur kappi úr Trójustríðinu, sem borinn var lognum sökum af Odysseifi og tekinn af lífi.

*Bls. 77*

**Ajax.** Hinn næst hraustasti í her Grikkja. Honum bar því vagn og vopn Akkiellesar, en hann var svikinn og Odysseifi gefnar þessar gersemar. Af þessum sökum framdi Ajax sjálfsmorð.

*Bls. 77*

**Sisyfos.** Konungur í Kórinþu, frægur fyrir stjórnvizku og slægð

*Bls. 77*

**Foringi hins mikla hers.** Agamemmon.